# Missiraskipta-offur

edur fjórtán

# Andlegar Hugleidingar,

sem lesast kunna á fyrstu sjø døgum

## Sumars og Veturs.

---

Samanteknar af

Sira Jóni sál. Gudmundssyni,
Presti í Reykjadal.



---

Kaupmannahøfn.
Prentad hjá P. N. Jorgensen.
1837.

# Til Lesarans.

Það er hvørttveggja, að þessar andlegu Hugleið-íngar, sem hér birtast í fyrsta sinni frá vorri hendi, eru ordnar mjøg skjaldgæfar, því 40 ár eru lidin sídan þær voru prentadar í Hrappseyar prentverki á Vesturlandi, enda hafa margir guð-ræknir menn, einkum á Nordurlandi, kvartað yfir þessum vanhag, og jafnframt borid það upp fyrir ockur og mælst til, að við vildum láta þær verda í tølu þeirra andlegu bóka, er við hefdum í hyggju að láta á prent útgánga; við høfum lika lengi ásett ockur að gefa þær út, og áform ockar var að láta þær fylgja með Fædíngar-Hugvekjum Sira Stepháns sál. Haldórssonar, er við létum prenta í fyrra, en ockur sýndist, að bókin mundi þá bædi verda alþýðu ofdýr, og lika eigi ólíklegt, að margur mundi vilja eiga Missera-skipta-offrid, er ecki girntist Hugvekjurnar, og adrir aptur þessar, er ecki æsktu hins. Þessvegna koma Hugleidíngar þessar fyrst nú út frá ockur, prentadar þvínær ordrétt eptir Hrappseyar-utgáfunni, nema hvað það ránga hefir verid lagfært, einkum ýmsir tilvísunarstadir i Bibliunni, og høfum við leitast við að vanda pappír og prentun þeirra sem bezt og hér var kostur á, hvað við vonum að allir réttsýnir menn muni vidurkénna.

Það þykir tilhlýdilegt ad géta þess hér, ad Hugleidingar þessar eru samanteknar árid 1768 af Síra Jóni sál. Gudmundssyni, er seinast var prestur í Reykjadal á Nordurlandi, í þeim tilgángi, ad þær lesast kynnu í inngaungu sumars og vetrar, hvørsvegna þær almennt kallast Missira-skipta-offur; hann hefir tileinkad þær í formála sínum velgjørda-módur sinni Helgu Brynjólfsdóttur, Landþingskrifara Sigurdar Sigurdssonar ekta-kvinnu, hvørn formála vid høfum álitid ónaudsýnlegt hér ad láta prenta.

Til þess ad gjøra bækling þenna ennþá nytsamari handa løndum vorum, høfum vid látid prenta aptanvid Hugleidingar þessar stuttann Leidarvísir til ávaxtarsams Bibliu-lesturs, sem ritadur er af Biskupi Dr. R. Møller, en snúinn á Islenzku af Síra Benedict Þórarinssyni, Sóknarpresti til Dysjarmýrar og Njardvíkur safnada, og sem inniheldur hinar krøptugustu og hjartnæmustu upphvatningar til ad lesa heilaga Ritningu, og gefur hinar ágætustu reglur fyrir lestri hennar, er sérhvør kristin manneskja, sem kominn er til vits og ára, ætti ad kynna sér og kunna utanad. Allir gódir Landar virdi þetta vort velmeinta fyritæki á betra veg, og láti bækling þenna þéna sér til sáluhjálplegrar uppbyggingar!

Kaupmannahøfn á Føstudaginn lánga.

**Þorg. Gudmundsson. Þorst. Helgason.**

# Sjö Hugleidingar

## sem lesast kunna í inngaungu sumars.

### Inngángurinn.

Og Gud gjørdi þau tvø stóru ljós, þad stærra ljósid ad stjórna deginum, og þad minna ljós ad stjórna nóttunni og stjørnurnar. Svo lengi sem jørdin varir, skal sád og kornskíra, frost og hiti, sumar og vetur, dagur og nótt ecki þverra,

1 Mós. 1, 16. 8, 22.

Lof og heidur, prís og æra sé eylífum og ódaudlegum Gudi Fødur, Syni og H. Anda, sem af einskærri fødurlegri nád og miskun sinni hefir lidid oss undir sinni alvísu og gædskuríku stjórnan inntil nálægs tíma, og géfur ad vér med gledi og føgnudi yfir hans nádarfullri forsjón og fyrirhyggju fáum ad njóta þeirrar unadsemdar, ad sjá ennþá yfir oss upprenna eina fagurt lýsandi og blessada sumarsól

á þessum fyrsta sumardags morgni: og þar ómetanlegar velgjördir Drottins, bædi þær sem hann hefir veitt oss á umlidnum vetri, og þær, sem hann hefir tilbúid og fyrirhugad ad veita oss á eptirkomandi sumartíma, eiga ecki med vanþacklætisfullri þagmælsku ad medtakast; því þyki mèr ecki einasta lystilegt, heldur og einnig gagnsamlegt, já, ómissandi, ad láta med þeirri nýupprunnu sumarsól upprenna í vorum hjörtum heilagar hugleidíngar, til þacklætis fyrir Drottins umlidnar ástríkar velgjördir, og til þess ad upporfa þess gædskuríka Gjafarans elskufulla Födurs hjarta ad framhalda því sama vid oss; sömuleidis til þess, ad oss mættu þeir eptirkomandi tímarnir því heldur blessast og farsælast, sem vèr uppbyrjum þá med meiri gudrækni og þacklæti til vors Drottins og Skapara. Skulu því í nafni Drottins vorar heilagar hugleidíngar festa og grundvalla sig helzt á þeim ordum textans, er sumrinu tilheyra, svosem þessum: sumar, sól, dagur, ljós, hiti, grös, regn.

O, þú blessada Sól þess eylífa sumars! upprenn þú nú sjálfur yfir sálum vorum í þínu ordi, og gèf ad þessi ræda verdi þèr ein þægileg sumargjöf! Og einsog sólin dregur ad sèr vökvann af jördunni, svo drag til þín frá vorum hjörtum idrunarfullann bænar- og þacklætisvökva! Bænheyr þad fyrir þíns blessada nafns sakir, Amen!

---

# 1ta Hugleiding

af Sumrinu

Skodid fíkjutréd og öll önnur tré, nær þeirra aldin tekur út ad springa, þá vitid, ad sumarid er nálægt, Lúc. 21, 29. 30.

Þad ný upprunna sumar skyldi uppvekja í oss nýar hugarins hræringar til andagtar og gudhrædslu. Blessadur sé Drottinn Zebaoth, hver alleina gjörir furdanlega hluti! Þad held eg víst, ad enginn hafi aflifad hryggilegri vetur enn réttlætis prédikarinn Nóe, og hann held eg fegnastann hafa ordid sumrinn. Hann var um veturinn inniluktur í örkinni, vitandi ei neitt, hvört hrekjast mundi, öllum kunningjum og ástvinum, utan sjö, sviptur, horfandi á þad hrædilega straff Drottins yfir allri veröldu, flækjandist innanum bylgjur og boda þess ógnarlega syndaflóds í stormum og stridvidrum. Þad var hryggilegur vetur, vetur eymdar, harms og freistinga, 1 Mós. 7, 7. En frelsadur og útgenginn af örkinni byrjadi hann med stórri hugar-kæti eitt gledilegt sumar. Þessvegna uppbyggdi hann Drottni í sumargjöf eitt þakklætis altari, offrandi hönum audmjúkri lofgjörd. Byrjum nú med sama hætti þetta blessada sumar í Jesú-nafni! Vér höfum ad sönnu ecki á allar sídur verid umgyrdtir med hörmunganna flódi, edur aldeilis verid inniluktir í örk ángistarinnar edur harmkvælanna, samt höfum vér þó ecki allir verid aldeilis án mótlætis, svo ad kannské sumir af oss hafi þó

haft orsök ad klaga og kvarta med Davíd: Æ, Drottinn! þú mettar oss med harma-braudi, Ps. 80, 6. En lofadur sé gódur Gud, bædi fyrir blídt og strídt, ad hann temur vort gjálífa hold med einum og ødrum mótblæstri! En frá hvad mørgum raunum, skada, freistíngum og mótlætíngum hefir Drottins milda hønd frelsad oss? Pad veit hann sjálfur bezt, þad fáum vér aldrei fullþackad; því vér megum nú med Nóa sigri hrósa yfir øllu vetrarins andstreymi, og gladir taka á móti sumarsins blessadri blídu fyrir nád Drottins; því er skyldt ad vér med Nóa uppbyggjum eitt þacklætis altari. Af fjórum hálfum hefir Drottins nádar-straumur yfir oss flotid: af himninum, þadan eru þær andlegu gáfurnar; af loptinu, þadan er temprun veduráttunnar; af jørdunni, af hennar ávøxtum høfum vér og vorar sképnur lifad; og af sjónum edur vøtnunum, Fjøgur ølturu skulum vér því uppbyggja Drottni, og á þeim offra vorum sumargjøfum til hans.

1. Hid fyrsta heitir ydrunar-altari. Látum oss reka minni til, med hvad margfoldu móti vér høfum á umlidnum vetri Gud styggdann, og brotid ámóti hans løgmáli bædi vitanlega og óvitanlega. Hvør sem vildi sérílagi hugleida, hvad þúnglega, hvad opt og med hvad mørgu móti hann hefdi Gud styggdann um einn dag, á hvørjum hinn réttláti fellur sjøsinnum, hvad opt þá hinn athugalausi, hvad opt hinn rángláti um heilt misseri? O! vertu oss nádugur, lifandi Gud! og hefn þú ecki á oss, á eptirkomandi sumartíma, þess sem vér høfum

þig með móðgað á umliðnum vetri! Vér játum vor afbrot, og drøgum ecki dulur á vorn misgjørning. Þú gafst oss hjarta til að elska þig, en vér snérum vorum kærleika til heimsins holdlegra girnda og hégómlegra hluta. Það er sú mesta hjartans raun, þegar sá, sem eg vil elska, foraktar eða hatar mig; þetta hefir þú þó, ó, mildi Faðir! mátt af oss reyna; þú hefir boðið oss faðminn, en vér høfum snúið við þér bakinu; þú gafst oss túngu til að lofa þig, og tala um þinar dásemdir, en hvørsu opt høfum vér það forsómað? en apturámóti illa og ógudlega talað, skammarleg orð og fíflslegt hjal, sem kristnum sómir ecki; þú gafst oss hendurnar til að gjøra það sem gott var, þér til dýrðar en oss og náúnganum til þarfa; en, ó, þú réttláti Dómari! hvørsu opt hafa þær hreift sig til að gjøra hið illa, því hinn sama afstað komið, en verið latar á hið góða? Sama er að segja um alla aðra vora limi og skilníngarvit. O, hvørsu margføld vanbrúkun á Drottins velgjørningum! Vér skømmumst vor að uppreikna vora klæki; vér blygðumst að framtelja vorar illgjørðir, svo eru þær viðurstyggilegar; vér orkum ei að saman reikna þær, því þær eru fleiri enn sandur á sjáfarstrøndu, eður hárin á høfði vorn. Og hvað skulum vér hértil segja? skulum vér þá í syndunum blífa, svo að náðin yfirgnæfi? fjærri sé því. Vér heyrum eitt hróp, og það er þins Sonar raust, ó, Herra Guð! Hann kallar og segir: Komið til mín allir þér, sem erfiðið og þúnga eruð þjáðir, eg vil endurnæra yður, Math. 11, 28; Item: Hvørn þann

sem til min kémur, skal eg ecki burtreka, Jóh. 7. Já gjarnan og fegnir komum vér, Herra Jesú! Vér komum bljúgir og klöckvir, ángrádir og hreldir, undirþrycktir af þúnga syndanna, hræddir fyrir reidi þess sem á stólnum situr, og fyrir reidi Lambsins; vér leggjum vora játning fyrir þínar fætur, og segjum: Fadir! vér höfum syndgad í himininn og fyrir þér, og erum ecki verdugir ad kallast þín börn, Lúc. 15, 18. Þvi beygium vér nú kné vorra hjartna, og bidjum þig um náð: Gud vertu oss syndugum líknsamur! miskuna þú oss! O, Gud, Fadir miskunsemdanna! kasta oss ecki frá þínu augliti! þvi syndugri sem vér erum, þvi stærri er þín náð, ad þú fyrirgéfur oss; en viljir þú oss ei álíta, þá álíttu þó þinn elskulegann Son; er hann ecki sá, sem betalad hefir vora skuld, og lidid kvöl og dauda fyrir oss? Es. 53. Heyrdu hann nú á himnum fyrir oss bidjandi, þú sem bænheyrdir hann á krossinum andvarpandi; haus undir eru vor læknisdómur, vort hæli og frelsisstadur: i þær viljum vér á þessum fyrsta sumardegi innflýa, og i þeim á öllu þessu sumri luktir vera fyrir trúna; þadan skal oss hvörki draga djöfullinn né lögmálsins bölvan. Jesús er vor Endurlausnari, hönum einum viljum vér áhánga; ecki muntu, ó, líknsami Fadir! úr hans undum undir straffid oss nauduga draga. Vér huggum oss vid þína náð, og af nádinni framkomna þíns Sonar forþénustu, af hans forþénustu frankomna nádarprédikun Evangelii, og af Evangelio styrkist vor trú og von um fyrirgéfning syndanna af þinni hálfu,

oss aumum og vesælum tilhanda. Þetta er sá ferþætti strengur, med hvørjum vér ætlum oss vid Jesúm ad festa og binda, svo vid hønum aldrei sleppum. Leita þú sjálfur ad oss, ó Jesú! þinum tíndu saudum, því þú ert sendur til fortapadra sauda af húsi Israels. Vér erum af Israels húsi, ef ecki ad fædingarréttinum, þá þó samt ad óskabarna-réttinum, leitadu því ad því tínda, og ber heim þad tapada. Vér mænum sem adrir rackar uppá þitt miskunarbord, lát falla ofan til vor, ef ecki heilt braud, þá þó mola þinnar miskunar, og seg til vor: Verdi yckur, sem þid viljid, verid hughraust mín børn, yckar syndir eru yckur fyrirgéfnar; eg hefi yckar synd í burt tekid, aldrei skal eg yckar synda ad eylífu minnast, med eylífri nád og miskun vil eg yckur miskuna! O, vor Gud, himneski Fadir miskunsemdanna og mikillrar þolinmædi! vertu oss øllum nádugur og miskunsamur. O, Jesú Christe, Guds Son! þú sem vaktir úngmennid af dauda med einu ordi, Lúc. 7, 12. uppvek oss og endurlífga dauda í syndunum; vísa oss nú á veg nádarinnar, undireins og vér gaungum á veg nýrra timanna umskipta, og seg til vor: Farid allir í fridi, minn frid géf eg ydur, minn frid læt eg hjá ydur; géf oss øllum þinn frid! O, þú H. Andi, hjálpin trú, huggarinn allra bezti! innsigla þú í vorum hjørtum og samvizkum þessa nád um syndanna fyrirgéfning; helga þú vor hjørtu, svo vér verdum hæfilegir til ad taka ámóti Drottins nádar-velgjørníngum og blessudum sumargjøfum, og gjør þessa vora idranar

fórn ilmandi af jurtum sannrar gudhrædsln og lifandi trúar, svo hún verdi vorum Gudi þægileg fyrir Jesúm Krist!

2. Uppbyggjum nú í annann máta eitt Lofgjørdar edur Þacklætis-altari. O, hvad margt og mikid hefir þú, Drottinn minn! oss til góda gjørt! hvad dýrmætar velgjørdir oss í té látid á umlidnum vetri, þú sem máttugur ert, og þitt nafn er heilagt! þad er ómøgulegt upp ad reikna, og þó nockur kunni ad reikna til einnar summu, hvad mørg sandkorn væru á sjáfarstrøndunni, hvad mørg grøs á jørdunni, og hvad margir dropar í øllum sjónum, þá kynni hann þó aldrei ad telja, hvad margar, edur ad meta, hvad mikils verdar þínar velgjørdir hafa verid, sem vid oss hafa framkomid bædi í andlegann og líkamlegann máta. Þú hefir endurnært vorar sálir á þínn blessada lífsins ordi, mettad þær og dryckjad med holdi og blódi þíns elskulega Sonar, upplýst oss med þínum H. Anda, og fyrirgéfid oss óteljanlega margar og þúngar syndir; þínir heiløgu englar hafa sett herbúdir í kríngum oss og alla vora, oss til verndar og forsvars; þú hefir geymt oss og allt vort í fridi, svo vér megum þad játa, ad þad sem vér afhendtum undir þína geymslu, þá veturinn kom, þvi svosem skilar þú oss nú aptur med inngángi sumarsins, sumu jafngódu, sumu med ávexti margføldum og meiri blessun, og ef vér høfum nockud mist af því, þú oss um stund lánadir, þá hefir þú géfid og munt vissulega géfa oss annad betra. Frá hvad mørgum háskasemdum

lifs og sálar hefir þú frelsad oss? Djöfulsins, heimsins og holdsins samt allra vorra óvina víg=vélum hefir þú burtsnúid frá oss. Hvør vakti yfir oss þá vér sváfum? þú Israels verndarinn, hvørn ecki sifjar. Hvør vøkvadi oss þyrsta? þú brunnur allrar gædsku. Hvør saddi oss húngrada? þú, sem ert þad himneska lífsins brand. Hvør klæddi oss nakta? þú, sem géfur þínum børnum møttul rétlætisins og klædi hjálprædisins. Hvør gætti vor, svo vorar fætur skridnudu ecki til skada? þú, sem ert vegurinn, sannleikurinn og lífid. Hvør vaktadi oss, svo vér urdum ecki brád þess helvízka úlfsins? þú, sem ert sá blessadi hirdir saudanna. Já, hvør ummúradi oss á allar sídur, svo engin ólucka hefir oss né nockurt vort fordjarfad? enginn utan þú alleina, þú eldlegi múr og adskilnadur mill=um vor og allra vorra óvina. Og hvad vil eg leitast vid ad upptelja þad, sem aldrei verdur talid? bædi heilsu og heilbrygdi líkama vorra, góda og glada samvizku, vellídun vorra ástvina, og yfir allt ad segja, þá hefir þú, ó, vor gódi Gud! breidt þinn fadm útyfir oss á allar sídur, á øllum stundum, í øllum stødum, yfir oss alla med allri gædsku. Hvad skulum vér þér nú endurgjalda fyrir allt þad gott, sem þú hefir oss gjørt? Hvad á snaudur fyrir ad géfa? þó vér vildum géfa þér himin og jørd med øllum þeirra gædum, þá væri þad þó oflítid, og þartil er þad eigi vort, heldur þitt eigid. Kálfa vara vorra, lofgjørd og þacklæti, ættum vér aptur í té ad láta, bædi med hjartanu, ordunum og verkunum; ordin

eru til alls fyrst. Lofadur og blessadur sértu, eylífi Gud og himneski Fadir! fyrir þína vernd og vardveizlu, og nádarsulla stjórnan yfir oss, í öllum þínum verkum og dásemdum! Lofadur og blessadur sértu, Herra Jesú! helzt fyrir þad, ad þú hefir oss endurleyst, og trúlofad þig oss í nád og miskunsemi, í réttlæti og dómi! Blessadur sértu fyrir öll þau líknarmálin, er þú hefir lagt oss vid þinn himneska Födur! Lofadur og blessadur vertu, ó, þú gódi heilagi Andi! fyrir þad þú hefir oss endurgétid, upplýst og helgad! Háttlofud og blessud sértu, ó, þú dýrdarfulla þrí-eining! fyrir gædi sálarinnar, med hvörjum þú hefir hana begáfad, fyrir gædi líkamans, med hvörjum þú hefir hann mjög dásamlega prýddann, fyrir gædi luckunnar og farsældarinnar, med hvörjum þú hefir oss audgad! Fyrir bædi andlegar og líkamlegar ástgjafir losi þig allt hvad til er á himni og á jördu! Allt hvad andad fær losi Drottinn! Géf oss nád til ad þacka þér svo hér í tímanum, ad vér fáum eylíflega ad þacka þér á því himneska dýrdar-sumrinn, Amen!

3. Þad þridja altari, sem vér skulum uppbyggja, er Hlýdninnar-altari; þará skal offrast þad hjarta, sem hefir fullkominn ásetning ad bæta sitt líferni og betur ad lifa. Hlýdni er betri enn offur, sagdi Samúel; ef vér viljum vita hvad ómissandi er ad offra þessu offri, þá vitum fyrir víst, ad eckért dugir ángur fyrir syndirnar, og aldeilis er trúin daud, nema þar komi til ný hlýdni; en hún er ecki heldurenn annad gott í vorn valdi. Þess-

vegna flýum vér enn á ný til þín, ó, þú líknsami góði Guð! skapa þú í oss hreint hjarta! bú þú þetta offur til handa sjálfum þér, krydda þú það með sætleika þíns orðs og Anda, svo þess ilmur lukti því betur fyrir þér; svosem þú ert réttlátur til að straffa, og miskunnsamur í að fyrirgéfa, svo ertu og máttugur að endurnýja. Margt er það í voru fari, sem lagfæríngar viðþarf, þú veizt øll fylgsni syndanna; tilbyrg þú þau, en kasta þeim á bak þér aptur! Vér kvíðum fyrir því, Drottinn! að vér munum enn þá ónýta þá kvittun syndanna, er vér af þinni náð svo opt þegið høfum, með því að iðka og æfa sømu illgjørðir á eptirkomandi sumri, á hvørjum vér høfum þó kvittun fengið og uppgjøf á þessum degi. O, hvað óviðurkvæmileg synd er það, að burtkasta þvílíkri sumárgjøf, sem er fyrirgefning allra undanfarinna synda! Varðveittu oss, ó, Guð! frá þvílíkri hrøsun, og styrk oss í því góða verkinu! Vér girnumst að geyma þitt løgmál, gefðu oss því það sinni, sem þig réttilega þekki, það hjarta, sem þig heitt elski, þann vilja, sem þér fúslega hlýði, þá túngu, sem þig iðuglega lofi, þau augu, sem iðuglega upp til þín horfi; þær hendur, sem þér þægileg verk framkvæmi, þær fætur, sem á þínum vegi gángi, þau eyru, sem þitt orð ljúflega og með eptirtekt heyri, þann líkama og þá sál, sem sig flekklausa geymi frá verøldinni, djøflinum og syndinni, já, þá sál, í hvørri engin fordæmíng sé, heldur sé í Christo Jesú, svo Kristur byggi eða búi í henni fyrir trúna. O, hvað mættum vér daglega dansa

og leika af fögnudi, ef vér gætum þannig lifad, þannig frambrunad vort lífsins skeid, og þannig djöfulinn og alla vora óvini undir fótum trodid! Burt, burt, þér sálnanna svikarar, djöfull og heimur! þagna þú og vert kyrr, þú gamli Adam, þú gjálífa hold og blód! vér ætlum nú ad þjóna Drottni trúlega, þvi vér erum Drottins, en afsegjum ydar þjónustu. Víki nú allar holdsins girndir, því vér höfum idran gjört. Þetta ad gjöra, þad er vor vilji, ó, þú mildi Gud! en þad ad fullkomna, þartil legg þú oss lid og krapta. Nú svosem þitt réttlæti hefir uppörfad hjá oss idranina, þín miskunsemi trúna, svo lát þitt almætti verka í oss hlýdnina. Þeim réttlátasta, miskunsámasta og almáttugasta Gudi sé lof og eylíf þackargjörd! Þú, Drottinn! lézt oss syndirnar þeckja, því þú ert réttlátur, þú fyrirgafst oss þær, því þú ert miskunsamur, og þú endurnýadir oss, því þú ert almáttugur. Í frá uppgaungu sólarinnar allt til hennar nidurgaungu sé lofad nafnid Drottins!

4. Þad fjórda fórnar-altari vort er Bænaraltari; þess er æ meiri þörf því heitara til Drottins ad andvarpa, sem þessi veröld tekur æ meir og meir til horns ad hníga, og því meir sem tíminn lídur, því nálægari erum vér endíng vorra lífdaga. Hvör af oss veit, hvört hann muni aflifa þetta sumar? er því bezt ad búa vel um sína hagi. Allt gott hljótum vér til Drottins ad sækja, um allt naudsýnlegt eigum vér því hann ad bidja. Þessvegna flýum vér enn þá á þínar nádir, ó, þú brunn-

ur allrar gœdſku! og viljum gyrda fyrir alla þá ólucku, er annars kynni uppá að falla, og útbrynja oſs fyrir eina audríka bœn med hjálprœdi þinu á allar ſídur. Því bidjum vér þig audmjúklega, ó, Fadir allrar miſkunar! miſkuna þú og bleſſa oſs, upphef þitt andlit yfir oſs, og géf þinn bleſsadann frid allt í kríngum oſs! Vardveit oſs med herſveitum þinna voldugu engla! Gæt þú ſjálfur alls þeſs, ſem þín gœdſka hefir oſs eptirlátid; bleſſadu og drýgdu alla vora bjørg og lífsnæring, ſvo hún ánægjanleg verdi, bædi fyrir oſs og vora! Vardveittu øll vor efni frá allri óbleſſan, en legg yfir bædi oſs og vora, ſamt yfir øll vor efni og erfidi þina margfalda og nádarríka bleſsan! O, Jeſú Chriſte! þú einaſti Lausnari og Sáluhjálpari! vardveit þina kriſtni, ſamanſafna þinu fólki, vøkva og planta þinn víngard, ſvo þitt nafn verdi því fremur helgad, ſvo þitt ríki eblíſt, þinn vilji framkvæmiſt, ſvo á jørdu ſem á himni, og þitt blód hreini á þeim ſøfnudi, hvørn þú hefir endurleyſt med þínu blódi til eylífrar farſældar! O, þú heil. Andi! ſem ert uppſpretta til alls fridar og róſemi, innhell þeirri réttu ſamvizkunnar róſemi í vor hjørtu; vardveit oſs i ſáluhjálplegri þeckingu þeſs himneſka ſannleika, og innſigla oſs mildilega þá himneſku nád og miſkun Drottins! O, þú volduga og bleſſada þrieining! bleſſa og vardveit nádarſamlega kónginn og øll rétt kriſtin yfirvøld! Vardveit oſs alla á ſálu og lífi; ſnú frá oſs hallæri og húngri, drepſóttum, ſtrídi, ófridi og eldsbruna, ſamt øllum háſka og ólucku! Géf heilſu og heilbrygdi, géf vellídan áſtvinanna,

gef hagstæda vedurattu, gef anægjanlegann avørt a jørdina, og god not þess sama avartar! Gef oss nad og frid; auktu oss truna, ebl med oss kærleikann; gef oss ad lifa godum, lastvørum og rofsømum, med allri gudrækni og sidsemi! Umfram allt, gef þeim, sem a þessu sumri burtkallast fyrir timannlegann dauda, ad þeir seu vel vidbunir; svipt engum af oss i burt ad halfnudum vorum lifdøgum, engum i þinni reidi! Vardveit oss fra meidslum og mjøg hastarlegum edur ovidkunnanlegum dauda, en gef oss farsælann og fridsamlegann dauda og eylifa sumar-sælu med þer i himnariki! Medtak nu i nad, o, þu, gædskuriki Fadir! þessa vora sumargjøf, og utdeil oss aptur þinni margfaldri blessan til allra vorra athafna og utrettinga. O, Jesu! gef oss þig sjalfann i sumargjøf, og þina forþenustu. O, heil. Andi! gef oss þina helgun, upplysing, huggun og astgjafir allar i sumargjøf. Svo befølum ver oss med øllum vorum astvinum, ektamøkum, børnum, hjuum, naungum, husum, heimilum, gøtsi, skepnum, ordum, athøfnum, aformi og utrettingum i nadarrika verud og forsvar Guds Fødurs, Sonar og H. Anda, i vøku og svefni, a nott og degi, i medlæti og motlæti, i sorg og gledi, i lifi og dauda, allt inni þad eylifa dyrdar og fagnadar sumarid annars heims. Se nafnid Drottins Jesu Krists blessad fra eylifd til eylifdar, Amen!

# 2ur Hugleiding

af Sólunni

Í frá uppgaungu sólarinnar, allt til hennar nidurgaungu, sé lofad nafnid Drottins, Ps. 113.

Þar er enginn hlutur svo dýrmætur til á himni eda jördu, ad Gudi hafi þókt hann ofgódur fyrir mannsképnuna. Jóseph dreymdi ad hönum þókti sólin, túnglid og allar stjörnur lúta sér, 1 Mós. 37, 9. Sólin er sú fegursta af öllum Guds sýnilegum handaverkum, hennar sæti er í þeim hán himnum, þó lúta hennar verkanir nidur til vor ofaná jördina, oss til gagns og nytsemda; já, svo fögur sem hún er, þá lætur Drottinn hana þó lýsa og renna yfir oss, svo vondir og ránglátir sem vér erum, einsog yfir hina gódu, Math. 5, 45. Þegar Jósúa hádi bardaga vid þá 5 Kananita kónga, þá lét Gud fyrir hans bæn sólina og túnglid standa kyrr, þángadtil hann hafdi unnid sigurinn, Jós. 10. Sá mæddi ferdamadur, sem á ad strída vid stirda veduráttu, verdur næsta feginn þá sólina sér; eins líka, þá dymm-vidrin gánga, verda menn gladir, nær frá sólinni hefur, svo hún er þá svosem í hvört sinn ný og fersk. Jesús veri oss í dag og á öll þessu sumri ein blessud sumar-sól, sem ætíd stadnæmist og hvílist yfir oss, og hjá oss, hvört heldur vér reynum mótvidri hörmúnganna, edur hretvidri freistínganna, og géfi oss á því öllu farsælann sigur ad vinna!

Mósis hendur mædduſt ecki allt til sólarlags, þá hann var ad bidja med þeim upplyptum til Drottins, þvíad Aron og Húr ſettu ſteina undir þær, 2 Móſ. 17, 12. Drottinn Jeſús, ſem er kénnimadur ad eylífu, og einn himneſkur hyrníngarſteinn, ſtyrki nú vorar bænarhendur til ad bidja ſvo heitt fyrir oſs og ødrum, ad vér verdum bænheyrdir, því Drottinn munu menn óttaſt ſvo lengi ſem ſólin og túnglid vara, ſegir Davíd, Pſ. 72, 5. Fyrſt vor gódi Gud veitir oſs þá nád, ad mega ennþá ſjá eina ný upprunna bleſſada ſumar-ſól, þá óttuſtum med ſonarlegum ótta þann bleſſada ſólarinnar kóngúng; Þú veldur því, ad ſólin og túnglid hafa ſinn viſſann gáng, ſegir Davíd enn aptur, Pſ. 74, 16. Lærum þad af þeſsum bádum himinſins ljóſum, ad hafa vorn viſſann gáng á vegi Drottins bodorda, á vegi dygdanna og mannkoſtanna, ſvo þó þad kunni ad ſké, (ſem, því verr! fyrir er ad óttaſt) ad ſól vorrar gudhrædſlu kunni undir ad gánga, á eptirkomandi ſumri, fyrir ótilheyrilega hrøſun í ſyndir og leſti; þá ſjáum til hún idugleg aptur upprenni, fyrir vokvafullann morgunroda ſannrar idrunar. Þegar ſólin ſkein heitt, þá brádnadi himnabraudid, 2 Móſ. 16, 21; Drottinn Jeſús ſmelti krapt ſinna bleſſudu lífsins orda inní vorar ſálir og hjørtu á þeſsu ſumri, ſvo ad hvønær ſem vér þau leſum eda heyrum, þá mættu þau verda oſs ad andlegu himnabraudi og ilmur lífsins. Drottinn er ſkuggi yfir þinni hægri hendi, ſvo ſólin brenni þig ecki, ſegir Davíd, Pſ. 121, 5; ó! vid hvad margføldum

háskasemdanna bruna hefir himneskur nádar- og vernd-ar-skuggi Drottins hlíft oss á umlidnum vetri, þar vér annars hefdum mátt klaga og kvarta med brúd-inni og segja: Horfid ecki á mig, ad eg er svo døck, því sólin hefir brendt mig, Lofkv. 1, 6; en fyrir hans nádarríka hjálp og vernd erum vér nú útvaldir einsog sól, sem hún aptur segir, Kap. 6, 10. Vér unnum til þess, ad vér hefdum ecki fengid ad sjá sólina, einsog Salómon segir um ótímabærann burd, Prédik. 6, 5. ad hún hefdi gengid myrk upp yfir oss, og hefdi ei haft sitt ljós, einsog skrifad stendur hjá Esaías í 13 Kap. 10 v. heldur verid sífeldlega þakin med skýum, einsog Drottinn hótadi Pharao Egyptalands kóngi, Ezech. 32, 7; en Drottins milda nád hefir ennþá um heilt misseri géfid yfir oss sólina, deginum til upplýsíngar, og túnglid og stjørnurnar eptir þeirra gángi, nóttunni til ljóss, Jerem. 31, 35. Látum því sól vorrar lofgjørdar og þacklætis aptur upprenna vorum góda Gudi til unadsemdar, á vorum fyrstu døgum sumarsins, og segjum med Davíd, Ps. 148, 2—3: Sól og túngl og allar lif-andi sképnur, lofid þér Drottinn. Jónas spámann ómæddi upp af sólar-hitanum, Jón. 4, 8; látum nú hinn gamla Adam verda aldeilis vanmáttugann til lastanna og édygdanna; gjørum umbreytíng til góds á lifernis háttum vorum med umbreytíng tímanna; látum varmann þeirrar blessudu Réttlætis-sólarinnar, Mal. 4, 2. Jesú Krists, lina abi holdlegra girnda og tilhnegínga, þá mun hann géfa ad vér ødlumst hjálprædid undir hans vængjum. Gjørum sem

kvinnurnar, er komu til grafarinnar um sólar uppruna, Marc. 16, 2; skodum vort eigid hjarta, í hvörju Jesús á geymdur ad vera; sé hann þar fyrir, þá fögnum og verum gladir, því þá er þad sú rétta sólarborgin, sem Esaias umtalar, Es. 19; en ef vér höfum honum þadan med uggleysi og idkun syndanna útvísad, svo leitum hans, og lockum hann þángad inn aptur med heitri bæn og alvarlegri hjartans idran; því hvad gagnar oss þad fyrir sálina, þó sú náttúrlega sólin skíni skært yfir oss, ef ilur og varmi Jesú Krists ástar og elsku vermir ecki og endurnærir hjörtun og sálir vorar; látum ecki sólina undirgánga yfir vorum löstum, Eph. 4, 26. heldur verum einsog kvinnan sú, sem íklædd var sólunni, Opinb. 12, 1. þad er, Krists réttlæti, hvört med trúnni medtekid færir þann ávöxt med sér, ad ef vér á eptirkomandi sumri kunnum burt ad kallast, þá munum vér skína sem sól í ríki vors Födurs, Math. 13, 43. Rækjum og stundum ordid Drottins; bidjum Gud at hjörtun vor líkist eigi þeirri vokvalausu jordu, í hvörri sædid skrælnar, þegar sólin géck upp, Marc. 4, 6. heldur heyrum þad svo nú á hinum fyrstu sumardögum, ad vér færum af því ávöxt í þolinmædi á eptirkomandi sumartíma. Þann gáng sem sólin sýndist hafa á hennar fyrsta sköpunar degi, hann hefur hún enn, og mun hafa til enda veraldar; byrjum nú í Jesú nafni á hinum fyrstu sumardögum allann vorn gáng í ótta Drottins, med bæn og ákalli til hans, bædi um vorar og allra sannkristinna naudsynjar, og höldum oss fast vid þann

veg allt til sumarsins útgángs, edur þángadtil vér höfum á enda gengid skeid vorra lífdaga. Sólin gèfur af sér birtu um alla veröldina; einsetjum oss ad láta sól gudrækninnar og kristilegs líffernis lýsa fyrir vorum sann-kristnum brædrum, svo ad, einsog vér sjáum gløggt til ad framkvæma vorar athafnir vid hid blessada sólar-ljós, eins mættu þeir sig spegla í vorum gjørdum, og eptir voru dæmi lockast til dygda og dáda, og dýrka sídan vorn Fødur, sem er á himnum.

Sólin vermir og endurnærir náttúru dýranna, urtanna, trjánna og svo framv. Látum kærleikans og elskulegra gódgjørda il leggja til allra rètt-trúadra Guds barna, sem vér tilnáum, sérdeilis Guds voladra, svo mun Drottins nádar og elsku ilur verda stadfastur yfir oss og hjá oss; eptir sinn óbrigdanlegu lofordi: Hvør fátækum miskunar, hann lánar Drottni, hann mun hønum þad ríkuglega endurgjalda, Ordskv. 19, 17. Hvør hann gèfur fátækum, hann mun ecki bresta, Ordskv. 28, 27. Sælir eru miskunsamir, segir Herrann sjálfur, þeir munu miskun hljóta, Math. 5, 7. Sólin er í midid plánetanna; Jesús, sem í midid stód hjá sínum lærisveinum, og óskadi þeim fridar, sé nú midt í vorum hjørtum, og gèfi oss frid samvizkunnar og sálarinnar; hann sé í midid í kristninni, útbýti fridi eindrægninnar og kærleikans til allra sinna barna; hann sé í midid hjá oss, þá vér leitum vorrar atvinnu og næringar, og útbýti sinni blessan á bádar hendur, yfir alla vora lífsbjørg og útrèttingar, hvar sem vér erum staddir,

hvört vér vökum eda sofum, þá sé yfir oss hans blessadur fridur til verndar og forsvars móti öllum vígvélum allra vorra óvina. Sólin upplýsir hin önnur himintúnglin, af hvörjum sum mundu annars engva birtu bera; nema Drottins nádarljós upplýsi skilníng vorra hugskota, þá eru vor hjörtu formyrkvud í því ad þeckja vorn Gud oss til sáluhjálpar, og nema hans ljómanda liferni upplýsi vort athæfi, þá eru allar vorar gjördir ecki utan eintóm myrkranna verk. Sólin er þad fegursta ljós himinsins; Jesú Krists blessud ásjána skein sem sól, þá hann ummyndadist á fjallinu Tabor, hann er sá fegursti medal mannanna sona, Ps. 45, 3; hans augu eru þúsundsinnum skærari enn sólin, þeim hinum sömu sínum skæru og miskunarfullu elsku-augum lypti hann til vor á þessu sumri, og láti upprenna á hvörjum degi yfir oss sína nádar- og gædsku-sól, sem burtdrifi öll syndanna, sorganna, straffsins, skadsemdanna, freistinganna, ofsóknanna og fordæmingarinnar myrkur. O, Jesú! þú blessada Réttlætis-sólin! gef öllum þeim, sem á þessu sumri burtkallast, þá farsæld og blessun, ad þegar vér ei sjáum leugur þá náttúrlegu sólina, þá mætti upprenna fyrir vorri sálarsjón sú blessada fagnadar-sól eylífrar dýrdar og unadsemdar, og leid oss inni þad fagurblómgada sumar eylífrar dýrdar, hvar oss mun hvörki húngra né þyrsta, hvar enginn hiti né sól mun brenna, hvared þú, vor Miskunari! munt oss leidsegja og leidbeina til brunna lifandi vatns, Es. 49, 10; þar munum vér njóta óendanlegrar sumarsælu í þeirri

borginni, sem hvörki þarf vid sólar né túngls, ad þau lýsi henni, þvi Gúds dýrd upplýsir hana, og hennar ljós er Lambid, Opinb. 22, 5; þad ertu, minn Herra Jesú! þid saklausa Lambid Guds, sem burttókst heimsins syndir. Þér sé lof og dýrd ad eylífu, Amen!

## 3ja Hugleiding
### af Ljósinu.

Drottinn! send þitt ljós og þinn sannleika, ad þau leidtogi oss, Ps. 43, 3.

Þau en þyckvu skýin adskilja sig, svo ad heidbjart verdur, og hans ljós skín gégnum þokuna, segir Jób i 37 Kap. þegar hann er ad vidfrægja verkin Drottins. Þad eigum vér nú og altid ad þacka Guds fódurlegri gædsku, ad hann lét ecki vegna mannkynsins synda vera sífeldann vetur um allann heimsaldur, heldur nidurskickadi svo tímanna skiptum, ad vér skyldum altid fá ljósid sumarsins, eptir myrkur vetrarins. Þetta mjøg dásamlega almættisverk Drottins, sem er ljósid, skín ennþá gladt yfir oss med þessu nýupprunna sumri, lofadur sé Gud! þvi skulum vér med hjálp Drottins útdraga oss nockrar heilagar hugleidingar til þacklætis vid hann, ef hann af nád sinni vildi þad af oss þiggja, svosem i sumargjøf (hvarum ei viljum efast), og vér þarmed kynnum ad leggja gódann grundvøll vorrar farsældar

á í hønd farandi sumri; þartil gefi hann sína náð í Jésú nafni!

Svo er ljósið veglegt handaverk Drottins, að sjálfur Jesús verður ljós kalladur, Jóh. 1, 1. og hans elskulegir eru kalladir ljóssins børn, Eph. 5, 8. Ljósið skapaði Guð til þess, að vér skyldum géta skodað aðrar hans sképnur, dáðst að þeim, og fært oss þær í nyt; því ef ecki hefði ljósið verið gjørt, þá hefðum vér ecki kunnað að dæma um hina ósýnilegu hlutina af þeim sýnilegu, einsog Páll postuli aðkveður, Róm. 1, 19; þessvegna þá vér skoðum birtuna eða ljósið, þá eigum vér að viðurkénna hvørsu stór velgjørningur Drottins það sé, og hønum þarfyrir að þacka. Það er víst, að hefði ecki ljósið verið, þá hefðu hvørki menn né sképnur kunnað að lifa, eða þeirra líf hefði verið mjøg eymdarlegt, þó lifað hefðu, hvað andstyggilegt er af þeim í þrjá daga varandi Egyptalands myrkrum, 2 Mós. 10, 22; þessvegna líkir Andi Drottins kvølum fordæmdra við myrkur, Math. 25, 3. Með fegurð ljóssins verðum vér áminntir að yfirvega þá glansandi fegurð þess hímneska ljóssins, í hvørju Guð býr, 1 Tim. 6, 16; hvørsvegna hann ogsvo kallast Fadir ljósanna, Jac. 1, 17; þarfyrir ástundum altíð að forðast verkin myrkranna, svo vér aldrei komum í hin eylífu myrkur, Eph.5, 11. 2 Pét. 2, 7. Svosem enginn hlutur kann að sjást án ljóssins, svo kunnum vér eckért að sjá eður skilja í andlegum efnum, nema fyrir upplýsing heilags Anda, Eph. 1, 18; Hvað þú ásetur þér, það mun hann láta luckast,

og ljósid mun skína á þínum vegi, sagdi Eliphas vid Jób, 22, 28. Sjáum til ad allur vor ásetníngur og athafnir á þessu sumri séu ljóssins verk, og í Gudi gjørdar, þá mun hann láta ljós luckunnar og farsældarinnar skína á vorum vegi. Med þessari sinni veglegu sképnu begáfadi hann oss á umlidnum vetri; ó, hvørsu lángsamur og óskémtilegur hefdi hann annars verid, ef vér aldrei hefdum ljósid séd, en vér megum nú hans fødurlegri miskun þad þacka, ad hann hefir begáfad oss bædi med ljósi sólarinnar, ljósi túnglsins, ljósi augnanna, ljósi eldsins, ljósi dagsins, ljósi skilníngsins, og því allra dýrmætasta ljósi sinna orda; blessad sé hans heil. nafn ad eylífu! Segjum því med Jób: Hans ljós skein yfir minn høfdi, og eg géck vid hans ljós í myrkrinu, 29, 3. Drottinn hefir nádarsamlega upphafid yfir oss ljós sins andlitis, einsog Davíd segir í Ps. 4, 7; Hann hefir frelsad sálir vorar frá daudanum og fætur vorar frá hrøsuninni, svo þad vér megum nú gánga fyrir Gudi í ljósi lifandi manna, í voninni eptir því eylífa ljósinu, Ps. 56, 10. Þad fegursta ljós, sem medal vor skinid hefir, er blessad ordid Drottins, hvørted hefir sinn bjartleika af þeirri blessudu og gagnskæru Réttlætis-sólunni Herranum Jesú Krist; til þessa ljóssins hefir vor gódi Gud kallad oss idugléga frá myrkrum andvaraleysisins og syndanna, 1 Pét. 2, 9. med hræríngu sins góda H. Anda, og fyrir opinbera ordsins prédikun, annars hefdum vér fálmad án ljóssins í myrkrunum, Jób. 12, 25; þannin hefir sá verid vort ljós,

Es. 60, 19. í hvørjum er einúngis ljós, Dan. 2, 22. Látum oss nú á eptirkomandi sumri gánga í ljósi Drottins, þad er, látum hans ord vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta, Ps. 119, 105; løgum eptir því allann vorn lifnad og gjørdir; nóttin veturfins er umlidin, en dagur sumarsins er kominn, leggjum því af verkin myrkranna, en íklýdumst hér-klædum ljóssins, sem eru kristilegar dygdir og manu-kostir, Róm. 13, 12. yfirklæddir med Jesú Krists réttlæti. O, hvad fagur sumar-skrúdi er þad! Ef vér høfum gjørt verkin myrkranna, þá tøkum oss nú fyrir heudur ad gánga svosem ljóssins børn, Eph. 5, 8. þá mun vort ljós (þad er: lucka og velgengni) frambrjótast sem morgunrodi Es. 58, 8. og ljósid heimsins, sem er Jesús, mun géfa ad vér gaungum ei í myrkrunum, heldur, ef vér hønum eptirfylgjum, mun hann géfa oss ljós lífsins, Jóh. 8, 12. og gjøra oss skapfelda til arfskiptis heil-agra í ljósinu, Kól. 1, 12. já, hann mun vera vort ljós í allrahanda myrkrum, Micha. 7, 8. Þeir sem nú ei sæta því ad kveikja þetta ljós hjá sér, á þessum fyrstu sumarsins døgum, þá er eg hræddur um, ad þeir munu burtreknir verda frá ljósinu í myrk-rid, einsog Jób segir um hina ógudhræddu, Kap. 18, 18. Því hvør þann illa gjørir, sá hatar ljósid, segir Herrann, Jóh. 3, 20. og ef þad ljós, sem í þeim er, er myrkur, hvílík munu þá myrkrin sjálf? Math. 6, 23. Flýum þessara selskap og fordumst þeirra dæmi; gaungum heldur medan vér høfum ljósid, svoad myrkurin høndli oss ecki, Jóh. 12, 35.

Medan vér høfum ljósid Jesúm hjá oss, þá trúum á hann, uppá þad vér séum ljóssins børn. Gud er ljós, segir Jóhannes, 1 Jóh. 1, 5. og engin myrkur eru í hønum; ef vér gaungum í ljósinu, líka sem hann sjálfur er í ljósinu, þá høfum vér samfélag innbyrdis, þá mun øll góð og øll fullkomin gjøf koma ofan til vor frá Fødur ljósanna, Jac. 1, 17. Drottinn útsendi nú sitt ljós og sinn sannleika, ad þau leidtogi oss, Ps. 43, 3. hann láti oss upprenna ljósid í myrkrunum, Ps. 112, 4. sérdeilis láti hann sífeldt gledi og fagnadarljós vera í vorum samvizkum, svo ef nockur hørmúnganna myrkur kunna ad byrgja fyrir oss ljós velgengninnar edur medlætisins, þá snúi hann vorri sorg í gledi og hugsvali oss og. gledji eptir vora hørmúng, Jer. 31, 13; hann blessi oss í allri vorri inntekt og øllum vorum handaverkum, 5 Mós. 16, 15: svo vér verdum gladir; láti hann oss heyra føgnud og gledi, svo þau beinin gladvær verdi, hvør hann hefir sundurmarid, Ps. 51, 10; hann upptendri í vorum hjørtum skært trúar-ljós, sem færir þann ávøxt, ad vorra gódverka ljós skíni fyrir mønnum, svo þeir sjái þau, og dýrki vorn Fødur, sem er á himnum, Math. 5, 16. J einu ordi ad segja: Gud vonarinnar uppfylli oss med øllum føgnudi og fridi í trúnni, svo vér høfum gnóglega von fyrir krapt H. Anda, Róm. 15, 13. og fáum med føgnudi ad uppausa ilmsætt hugsvølunar vatn úr himneskum hjálprædis-brunnum Drottins, Es. 12, 3. hvønær sem oss áliggur. Umfram alla hluti, þegar daudans myrkur-ýfir oss falla,

og vér sjáum ei lengur þetta fagra heimsins ljós, uppljúktu þá, ó Jesú! fyrir oss þeirri blessudu ljóssins borg, þeirri himnesku Jerúsalem, sem hvørki þarf vid sólar né túngls, því þú sjálfur, ó, þú, Lambid Guds! ert hennar ljós, Opinb. 21, 23. Upplýs vor augu, svo vér sofnum ecki í daudanum, heldur gef oss þad eylífa dýrdar-ljós, í hvørju vér fáum ad sjá þig augliti til auglitis; þad eylífa sumar-ljós, hvørt enginn vetur mun burttaka; þad eylífa gledinnar-ljós, hvørs birtu engin sorg mun deyfa; þad eylífa réttlætis-ljós, hvørs ljóma engin synd mun byrgja; þad eylífa skilnings-ljós, hvørt enginn vanskilníngur mun slöckva; þad eylífa kærleiks-ljós, á hvørt eckert hatur mun skyggja; þad eylífa heilbrygdinnar-ljós, hvørt engin sótt mun kæfa; þad eylífa lífsins-ljós, á hvørt enginn daudans þitur mun blása, heldur mun eylíflega lifa, Amen!

## 4da Hugleiding

### af Deginum

*Eru þar ecki tólf stundir í degi? Ef nockur gengur um daginn, sá steytir sig eigi, því hann sér ljós þessa heims, Jóh. 11, 9.*

Slepptu mér nú, því þad dagar, sagdi Guds Sonur vid Jacob, er hann féckst vid hann, en Jacob sagdi: Eg sleppi þér ecki, fyrrenn þú blessar mig, 1 Mós. 32, 26. og Móses segir hann hafi blessad hann. Sæll er sá madur, sem med trúar-

og bænar-ørmum svo hondlar Krist á hvørjum morgni, ad hann leggur blessan yfir hann og øll handverk, sem fyrir hønum liggur ad framkvæma á þeim degi; en megi madur kallast sæll fyrir eins dags vellídan, hvad miklu framar mættum vér kallast sælir, ef vér med vorum andlegu hugleidingum orkudum þess á hinum fyrstu døgum þessa ný-inngengna sumars, ad allir þess dagar yrdu oss blessadir, og øll vor verk blessud. Gud géfi oss þartil nád síns Anda í Jesú nafni!

Í dag er hinn fjórdi dagur þessa sumars, þarfyrir skulum vér á hønum sem og sérhvørjum ødrum degi minnast sérdeilis á fjóra daga, og af þeim taka oss andlegar hugleidingar. Hinn fyrsti er vor Fædingardagur: hann hafa maktarmenn og stórherrar veraldarinnar í mikilli virdingu: Pharao kóngur héldt sinn burdardag, 1 Mós. 40, 20. svo gjørdi og Heródes, Math. 14, 6. Ecki einasta á þeim degi ársins, sem ber uppá vorn fædingardag, heldur og á hvørjum degi eigum vér ad minnast vors burdardags, med því móti ad offra Gudi hjartanlegu þacklæti fyrir þann velgjørning, ad hann af einskærri nád og fødurlegri hjarta-gædsku, án þess hann þyrfti vor vid í nockru sín vegna, skapadi oss skynsemdarfullar manneskjur, svo vér kynnum, fyrir upplýsing H. Anda, ad fá hann þecktann oss til sáluhjálpar, og notid þeirra gæda, er hann bædi hér og sídar hefir oss veitt og tilbúid; þvíad alla hluti, svovel þá himnesku í loptinu, sem þá jardnesku á jørdinni, hefir Gud fyrir manninn gjørda; af þeim

hefur maður not, yndi og eptirlæti, einna helzt fyrir það, að hann er skynsemdarfull skèpna, og þó yfirgnæfa þau eylífu gæðin, til hvörra hann hefir oss útvalið, áðurenn grundvöllur veraldarinnar var lagður, Eph. 1, 4. og það áðurenn hann gjörði oss manneskjur. Á þennann dag eigum vér með þvílíku þakklæti að minnast, að vér brúkum altíð vora skynsemi og vora limi Guði til dýrðar og þóknunar, oss til velferdar, og náúnganum til gagns og adstoðar; það kallar Pálus að ljá sína limu til þess offurs, sem lifandi er og heilagt og Guði þacknæmt, hvört að er vor skynsamleg þjónusta, Róm. 12, 1. Og ennaptur kèmst hann svo að orði: Ljáið ydur siálfa Guði, og ydar limu Guði til rèttlætis hervopna, Róm. 6, 13.

Sá annar dagur, á hvörn vér eigum sífeldlega að minnast, er vor Skírnardagur, því svo dásamlegt Guðs verk sem það var að skapa oss, svo miklu dásamlegra var það, að endurskapa oss, að giöra oss, sem af náttúrunni vorum reidinnar börn Eph. 2, 3. og í syndinni gétnir og fæddir, Ps. 51, 7. að Guds börnum og erfíngium eylífs lífs. Þessa velgjörníngs minnist Pálus, er hann segir: Gal. 3, 26. 27. Þér erud allir Guds börn fyrir trúna á Jesúm Krist, því svo margir af ydur sem erud skírdir, þér hafið iklædst Christo. Sá sem nú vildi með athuga yfirvega, hvör gædamunur á því er, að vera Guds barn, edur Satans þræll, hann mundi undireins fá þeckt, um hvad mikið þackíæti hann sé Guði skyldugur fyrir sinn skírnardag, og

hvad naudsýnlegt, já ómissandi. Þad sé ad minnast sífeldlega á hann. En allraheltzt eigum vér ad minnast þess sáttmála, sem vér vid Gud gjørdum í skírninni; hann hefir oss helgad og hreinsad fyrir vatnslaugina í ordinu, Eph. 5, 26. Því eigum vér ecki ad ata oss í óklárindum illgirnis syndanna, þvertámóti þeim sáttmála, vér vid Gud gjørdum í skírninni. Postulinn Pétur segir: Ad skírnin sé sáttmáli gódrar samvizku vid Gud, 1 Pét. 3, 21; Þad skil eg svo: ad vor sáttmáli vid Gud í skírninni gjørdur, skuldbindi oss til ad varast allt þad ad gjøra edur framkvæma, sem orsakar vonda og órólega samvizku eptirá; sá þessa gætir og vill gjøra, fær því af stad komid, þó holdi og blódi þyki þad torveldt, því hann megnar alla hluti fyrir þann, sem hann máttuganu gjørir Jesúm Krist, Phil. 4, 13; og þeir sem Christo tilheyra, krossfesta í krapti skírnarinnar sitt hold med þess girndum og tilhneigíngum, Gal. 5, 24. Sá sem þessvegna vill alltíd vera Guds barn, hann skal á hvørjum degi minnast á þennann dag, keppast vid ad endurnýa sinn skírnarsáttmála, fyrir heitá ydrun og lifnadarins betran, endurnýast í anda síns hugskots, íklædast þeim nýa manni, sem eptir Gudi er skapadur í réttlæti og heilagleika sannleikans, Eph. 4, 24.

Sá þridji dagur, hvørs vér eigum sífeldlega ad minnast, er vor Andlátsdagur. Þad má sýnast undarlegt, ad manneskjan getur nockurntíma gleymt daudanum, þar vér þó daglega deyum, og hvørt augnablik bendir oss til daudans; því meir

sem vorir dagar fjølga, því meir fækka þeir, þessvegna ætti vort líf ad vera sífeld umþenkíng daudans; og héradauki er daudans von á hvørjum degi. Vér vitum ecki nær Húsherrann kémur, hvørt um kvøld, edur um midnætti, edur nær haninn galar, edur ad morgni, Marc. 13, 35. Hvør af oss veit, hvørt vær aflisum þenna dag? O! ad vér vissum eda vildum vita hvad til vors fridar heyrir, þá mundum vér á þessum degi þar vaktan á hafa, Lúc. 19, 42. Þessvegna minnumst vér réttilega vors andlátsdags, ef vér byrjum svo hvørn dag, ad vér væntum hann verdi vor sídasti, og færum svo engu fram á þeim degi, nema því sem óhætt væri, þó daudinn yfirfélli oss í því starfi; Sæll er sá þjón, nær hans Herra finnur hann svo gjørandi, þá hann kémur, Math, 24, 46.

Sá fiórdi dagur, sem oss á ætíd í minni ad vera, er hinn sídasti dagur, edur dagur allsherjar dóms; hann er eins alltíd vís og óvís sem daudans dagur; hvør þorir ad segja fyrir víst, ad Høfudengilsins básúna muni ei kveda vid í skýum himins, ádurenn þessi dagur er úti, 1 Thess. 4, 16. En þvílíkann, sem hinn sídasti dagur finnur þig, þvílíkann og svo á sig kominn hefir hann þig fyrir dóminn, muntu svo ødlast eptir því sem þú hefir adhafst í líkamans lífi, hvørt þad var íllt edur gott, 2 Kor. 5, 10. Því þá mun hvørjum sem einum lofstír ské af Gudi, 2 Kor. 4. Verum því strax í dag vakandi og varir um oss bædi fyrir dauda og dómi; og þéad oss kunni ad sifja, (því þær forsjálu jómfrúrnar

sifjadi lika) þá vøkum í tíma. Hvøreinn dagur sé vor vøkudagur, hvørein nótt vor vøkunótt, svo vér gétum tekid vara á því, ad hafa vora lampa tendrada, og vera alvaknadir, fyrir eina hreina idran og lifandi trú, ádurenn brúdguminn lætur aptur, Math. 25, 11—12. Gætum nú þessa alls á hinum fyrstu døgum þessa sumars, hvørja þó vér aflifum, þá vitum vér samt ei nema þetta verdi vort hid sídasta sumar. Eg er viss um, ad margir þeir, sem lifdu hinn fyrsta dag þessa sumars, munu ei lifa þann seinasta; en hvørt eg, edur þú, verdum í tølu hinna fyrri, edur sídari, þad veit hvørki eg né þú, Gud veit þad; en hitt veit eg, ad ockur er þad eins víst og ødrum hér vid ad skilja; því vil eg ecki varbúinn vera, heldur nú strax mig í vagt taka, og fyrir heita idran og hræsnislausa liferniss betrun, mér á veg til himnaríkis snúa, svoad ef daudi og dómur koma, þá vil eg mæta þeim med sama hugarfari, med sama andvarpi sem Símeon, med Jesúm á trúarinnar ørmum í hjartanu, Eph. 3, 17. og med þetta andvarp í munninum: Nú lát þú, Drottinn! þjón þinn í fridi fara. Hvør sem nú iduglega og á hvørjum degi hefir í huga þessa fjóra daga, med sannri gudhrædslu, hans dagar verda allir blessadir og beztir þeir sídustu. Sæll er sá, sem þess gætir, og gjørir þareptir.

Fleiri eru ad sønnu dagar þeir, hvørja heiløg ritning hefir þessvegna uppteiknad, ad vér megum þeim ecki aldeilis gleyma, heldur þá í minni hafa, til ad dýrka med þeim Gud og gæta vorrar vel-

ferdar. Þar er fyrst vor Drottins dagur, sem og sérhvør annar helgur dagur af Gudi og konúnginum heilagri þjónustugjørd tileinkadur. Minnstu ad helga hvíldardaginn Drottins Guds þíns, stendur í løgmálinu; á þenna dag minnist Lúcas í Post. Gjørn. 20, 7. er hann segir, ad lærisveinarnir hafi komid saman á hinum fyrsta degi vikunnar ad brjóta braudid; einnig sá Jóhannes í opinberingunum, 1, 10. Guds Son á Drottins degi millum þeirra 7 ljósastjaka. Þenna dag eigum vér med hinni stærstu gudrækni heilagann ad halda, og á hinum vikudøgunum ad yfirvega þad, sem oss á þeim helgu døgunum í Guds ordi kénnt og prédikad var; en allra, helzt helgum vér þenna dag, ef vér á hønum byrjum nýtt líferni, med nýrri viku hvørri, og færum þannig ávøxt af ordsins heyrn í þolinmædi. Sá annar er Nádarinnar dagur, hvørn Páll kallar dag hjálprædisins, 2 Kor. 6, 2; þenna sama dag nefnir Esaias þacknæmilegt ár Drottins, Es. 61, 2. Fyrir þenna dag á ad skiljast tími Guds nádar í Evangelio frambodinnar, med hvørri oss er frambodin sáluhjálpin og réttlætid fyrir trúna, vegna Krists forþénustu; þetta sannar Páll, Róm. 3, 24. segjandi: Vér verdum útaf hans nád án verdskuldunar réttlættir fyrir þá endurlausn, sem ordin er fyrir Jesum Krist, hvørn Gud skickadi til eins nádarstóls fyrir trúna í hans blódi. Þessi dagur er sá eini gledidagurinn vor í þessum heimi, ad gledjast í og af þeirri nád, sem Gud hefir oss géfid í Drottni vorum Jesú Krist; og ef rétt er álitid vort

ſtand, þá er þeſſi eini føgnudur hér ſtadfeſtur, en enginn annar; þad vitnar Páldus, er hann í ødrum ſtad talar um þenna hjálprædisdag, Phil. 4, 4. ſegjandi: Gledjid ydur í Drottni alla tíma, og enn aptur ſegi eg, gledjid ydur, því Drottinn er nálægur, þad er: Guds nád er nú í Evangelio fyrir Jeſúm Kriſt frambodin. Þeſſa hjálprædiſins og nádarinnar dags eigum vér ſvo med þacklæti ad minnaſt, ad vér eigi forſómum nádarinnar tíma, eigi brjótum hann af oſs, heldur tøkum med ſann-idrandi og trúndu hjarta móti frambodinni nád, ſvo vér af Jeſú Kriſts fyllíngu medtøkum allir nád fyrir nád, Jóh. 1, 16.

Sá þridji er Dagur reidinnar, hvørn Zephanías ſpámadur fyrirſagdi Gydíngum, Kap. 1, 15. er hann ſpádi um þeirra eydilegging, ſegjandi: Sá ſami dagur er reidinnar-dagur, hrygdar- og ángiſtar-dagur; ſømuleidis ſegir Páldus, Róm. 2, 5. En þú eptir þínu forſtockudu hjarta ſafnar þér ſjálfum reidi uppá reidinnar dag og opinberunar Guds réttlætis dóms. Fyrir þeſſum degi eigum vér ad óttaſt, og egna hann ecki yfir oſs med visvitandi illgirnis ſyndum; en lofadur veri Guds Sonur, ſem oſs hefir frelſad frá tilkomandi reidi, 1 Theſs. 1, 10. og med ſinn blódregni ſlöckt Guds reidi-eld, en þarámót hefir hann med ſinni árnan og forþénuſtu upptendrad í ſíns Fødurs hjarta einn óſlöckyanlegann áſtar-eld til allra hans rétt-trúadra barna, Jer. 31, 3.

Sá fjórdi dagur er Dagur mótlætisins. Fáir og illir eru minir dagar, segir Jacob; þessi dagur minnir gjarnan sjálfur á sig, því hann er Guds börnum nærsta fylgisamur. Ezechías köngur kallar þad Neydarinnar-dag, 2 Köng. 19, 3; um hann talar svo Jób, Kap. 1, 1: Hlýtur ecki madurinn ad vera í sifeldu stridi á jördunni, og hans dagar eru sem eins daglannara. Þenna dag eigum vér ad umbera med þolinmædi, því hann er þó alltid kryddadur med himneskum huggunum: Sælir eru þeir sem harma, því þeir munu huggadir verda, segir vor Frelsari, Math. 5, 4. hann þénar Guds börnum til hins bezta. Gott er at hafa samfélag med Jesú í hörmúngunum: Ef heimurinn hatar ydur, segir hann, þá vitid, ad hann hefir hatad mig fyrri, því sagdi hann vid þá tvo reisendur til Emaus, Lúc. 24, 26: Hlaut Kristur ecki þetta ad lída, og inngánga svo í sina dýrd. Látum oss þessvegna ei undra, þó vér einsog hann og hans elskendur, hljótum fyrir margar hörmúngar ad inngánga í Guds riki, Postg. 14, 22; hérum talar Páluś mjög huggunarsamlega, 2 Kor. 1, 5. er hann segir: Svo sem Krists pislir yfirgnæfa til vor, svo yfirgnæfir vor huggun fyrir Christum. Hann léttir af oss þá bezt gégnir, og lídur ei ad vér freistumst yfir megn fram, 1 Kor. 10, 13. heldur géfur hann þad, ad vor hrygd, sem stundleg er og léttbær, gjörir oss eina eylífa og yfirmáta mikla dýrd, 2 Kor. 4, 17.

Sá fimti er Dagur medlætisins, edur sem Pétur ad ordi kémst; 1 Pét. 3, 10: þeir gódu dagarnir; á þeim er oss engu sídur vandlfad enn þeim bágu, ad ei upphrokum vér oss, edur gleymum Gudi, en festum ofmjøg hjartad vid þad stundlega. Páll reiknar alla hluti þreck ad vera, svo hann ávinni Christum, Phil. 3, 8. Brúkum því svo tíma medlætisins, ad vér aldrei séum varbúnir ad taka áméti degi mótlætisins. Ef vér nú iduglega hugsum eptir øllu þessu, þá munu oss allir dagar, bædi á þessu sumri, og svo lengi vér lifum, verda farsælir; þá mun vor dauda-dagur verda oss betri enn vor fædingar-dagur, Prédik. 7, 1. og vor lífsvegur mun verda sem eitt skínandi ljós, sem framgengur og lýsir yfir oss allt til hádeigis, Ordskv. 4, 18. Gud himneskur géfi oss og øllum vorum náúngum og ástvinum alla daga og stundir farsælar og blessadar; hann láti á þeim tilkomandi døgum Jacob fá rætur og hinn andlega Israel blómgast, Es. 27, 6. og innleidi oss alla til þess eylífa gledi-dags á himnum! Hønum med Syninum og H. Anda sé lof og dýrd, frá eylífd til eylífdar, Amen!

# 5ta Hugleiding

## af Hitanum

Blessadur sé sá madur, sem reidir sig uppá Drottinn, og Drottinn mun vera hans athvarf; hann er eins sem það tré hjá vatni er plantad, og sem útbreidir sínar rætur hjá einum læk, hann mun ecki óttast þó hitinn komi, Jerem. 17, 7—8.

Af því hitinn er helzt um sumartímann, því skulum vér nú taka oss út af hönum andlegar hugleidíngar. Hörmúngum og mótlætingum Guðsbarna er opt í heil. ritníngu vid hitann líkt, bædi í þessari grein Jeremíæ spámanns, svo og hjá Postulanum Pétri, er hann segir, 1 Pét. 4, 12: Látid ei þann brunann hörmúnganna undra ydur; Þú ert einn skuggi þess fátæka fyrir hitanum, segir Esaias, 25, 4; Horfid ei á mig, eg er svo dökk, því sólin hefir brennt mig, segir brúdurin í Lofkvædinu, 1, 6. Einsog það Jonæ spámanni vard ærid ómædt, og hann vanmegnadist af sólarhitanum, þá lundurinn visnadi, sem skýldi hönum, Jón. 4, 8; svo er og fyrir því ad óttast, ad á eptir-komandi sumri kunni oss ad verda ómædt af hita hörmúnganna, nema vér med hjálp H. Anda í tíma uppbyggjum yfir oss einn hlífdar-lund, hvörs rætur ad gródursettar sén í ordi Drottins, og hvörs laufblöd ad sén H. Anda hugganir, nærsta skjólsamar til ad bera af oss brunann freistínganna. Gætum vér nú þessu vel

og gudrækilega í verk komid, þá er eg viss um, ad einsog Gud kom til Abrahams í dalnum Mamre, þá dagurinn var sem heitastur, 1 Mós. 18, 1. eins mun Drottinn, þá hønum þóknast ad láta oss reyna hita mótlætissins á þessu sumri, vera hjá oss í neydinni, oss þadan útrýckja og vegsamlega gjøra, en þó med því móti, ad vér bernm þann hita og þúnga dagsins réttilega; því skulum vér taka oss vissar reglur fyrir til hugleidingar, sem vér nú a hinum fyrstu døgum sumarsins skulum læra, en brúka þær sídar þá á þarf ad halda.

Hin fyrsta er þessi: ad hafa ecki hjartad fast vid heiminn, eda þad, sem í hønum er. Því fastara sem tollir nidur í sárinu, því meira kvalrædi er ad þola, þá rifid er uppúr því; því fremur sem einn hefir fest sitt hjarta vid þetta stundlega, því meiri átøk þarf sá himneski Israels Grædari ad rífa þad frá holdlegri áhyggju. Þarfyrir, þegar oss í sumar þykir vænst um vort stand, þá látum oss vænst þykja um þann, sem svo þæga medlætis sól géfur, og høfum alltíd hjartad og þess elsku á hønum fasta; Elskid ecki heiminn, né neitt þad sem í hønum er; ef nockur elskar heiminn, í hønum er ecki kærleiki Fødursins, segir Jóhannes, 1 Jóh. 2, 15. Þó madur vildi flýa undan hita hørmúnganna í forsælu veraldarinnar, edur stundlegra muna, þá er þad til ad jafna, sem einn vildi flýa undan hita sólarinnar og kasta sér í brennandi elds-glód; lidum heldur med þolinmædi, ad Drottins hønd þrycki oss, svo vér af velgengninni ecki ofmjøg ugglausir edur upphrokadir

verdum. Guds ørvar eru sárbeittar og stínga, þess-vegna dempa þær og holdlegar girndir. Davíd gaf sig frá lostaseminni med Batseba, þegar barnid vard sjúkt, 2 Sam. 12, 16. Børnin eru afvanin med því ad eitthvad rammt er borid á brjóst módur-innar; Gud afvenur sína trúada af brjóstum ver-aldarinnar, svo kalla eg vellystingarnar, med beiskri krossins malurt. Þó Gud kunni ad gjøra vorn sumargáng í einhvørn máta ørdugann med klúngrum mótlætinganna, edur hrjóstugann af þyrnum freist-inganna, þá gjørir hann þad til þess, ad vér skulum því heldur láta oss lánga til hans miskunar og dýrdar-húsa. Skorturinn og kromin snéru þeim fortapada syni til fødur-húsanna aptur, Lúc. 15, 17; ástvinar hørmúngin rak þá kanversku kvinnu frá Tyr-us og Sidon, Math. 15, 23. Svosem smidurinn hreinsar úr málminum sorann med eldsins hita, svo hreinsar vor gódur Gud af oss sællifisins og synd-anna saur í krossins ofni; því segir hann hjá Esai-as, 48, 10: Sjá eg hefi hreinsad þig sem silfur, og útvalid þig í ofni eymdarinnar.

Ønnur reglan er, ad undireins og vér tøkum til ad reyna bágt, þá flýum til Christum; géfum oss í før med øllum þeim, sem þad hafa til bragds tekid, þegar ad hefir þrengt. Ef vér reynum heilsu-brest á sjálfum oss, þá verdum samferda hinum líkþráa, sem umgétur hjá Math. 8, 2; ef reynum bøl og mótlæti á børnum vorum, géfum oss í før med fødur hins túnglsjúka, Math. 9, 2, og med Jairo, Marc. 5, 22; ef á hjúum vorum, þá med

hundradshøfdingjanum, og svo framv. Það slær aldrei feil, að hjá hønum fáum vér bót á øllu bøli. Því meir sem vatnið óx í Nóa flóði, því meir hækkaði ørkin upp; svo skulum vér og láta þau heitu hørmunganna vøtn hefja ørk vors hjarta til Drottins og hønum nálægjast: Mín augu hef eg til Dróttins, segir Davíð í Ps. 25, 15; item í Ps. 120, 1: Eg héldt mér til Drottins í minni neyð, eg hrópaði og hann bænheyrði mig. Hjørturinn af hundum eltur flýr stundum sjálfkrafa til mannsins; svo reka og mótlætingarnar margann þann til Christum, sem ekkért áður um hann skeytti; því hvørt skyldum vér annars flýa? hann rekur engann þann frá sér, sem til hans kémur; hann hefir og alla hluti nóga, hvað sem oss brestur; séum vér naktir, þá vill hann klæða oss kyrtli réttlætisins og møttli hjálpræðisins, Es. 61, 10; erum vér húngraðir, þá er hann það sanna lífsins brauð, sem af himnum er ofan komið, og heiminum géfur líf, Jóh. 6, 35; erum vér þyrstir, þá er hann brunnur hjálpræðisins, svo hvør hann dreckur af því vatni, sem hann géfur, hann mun ei þyrsta að eylífu, Jóh. 4, 14; erum vér fátækir, þá er hann Guð alleina ríkur, sem á himin og jørð, og allt hvað þar er inni; erum vér veikir, þá er hann Drottinn vor Græðari, 2 Mós. 15; erum vér sem villuráfandi sauðir, þá er hann vegurinn, sannleikurinn og lífið, Jóh. 14, 6; erum vér ecki neitt í neinu, þá er hann allt í øllu. Leitum því Drottins strax í mótlætinu, meðan hann er að finna, Es. 55, 6; hans høndur eru sem segulsteinn, er

med krossins áþreifingu sigrar og dregur vor járnhjörtu ad sér.

Þridja reglan er: verum audmjúkir; medkénnum strax sem mótlætid kémur, ad vér séum þess maklegir; segjum med David, Ps. 119, 71: Fyrir gódu vard mér þad, Drottinn! ad þú lítilækkadir mig, svo ad eg lærdi þínar réttlætingar. Margir mundu reisa hærra kambinn, ef farg krossins þrykti þeim ecki nidur, og gjördi þá vanmegna til ýmsra synda; med hita hörmúnganna. Hvarfyrir lídum vér? vegna syndanna, þad er þá nóg orsök til audmýktar, ad vér lídum fyrir glæpi vora. Gud straffar vorar heimuglegar syndir med opinberum krossins svipum; þad er ecki ærid gott merki ad vera fyrir utan aga Drottins; þar sleppir ecki fadirinn barni sínu óhegnu, sem hann sér fram yfir glæpi þrælsins, einkum sjái hann eigi lagfæringar von; en hvarfyrir? afþví hann hefir meiri rækt á barninu: Hvörn þann son, sem fadirinn elskar, þann agar hann og tiptar, en ef vér erum án tiptunar, þá erum vér hjábörn, en ecki synir, segir Páll, Ebr. 12, 6–8. Því audmjúkari sem vér lídum, hvört sem þad er heilsu-veiki á oss edur ástvinum vorum, örbyrgd, grasbrestur, ótedurátta, edur hvad annad, því fljótari verdur Fadir gædskunnar ad létta af oss hrísinu, og hjálpa oss sem fyrst úr hita ángistarinnar, og gefur oss ad mega búa sídar vid forsælu og svölunar-blæ vellídunarinnar. Svo hardna nú þessir audvirdilegu tigulsteinar í ofni og eldi mótlætinganna til lifandi steina, 1 Pét. 2, 5. ad þeir

verda ecki fyrir nockurt hørmúnganna regn aptur fundur=losadir.

Fjórda reglan, eptir hvørri vér skulum skickaoss, ef Drottni þócknast ad láta oss reyna hita mótlætinganna á þessu sumri, er: ad bidja og andvarpa til Guds: Þegar þú tiptar þá, þá hrópa þeir, segir Esaias, Kap. 26, 16. Strax sem lærisveinarnir komu í lifsháskann, þá hrópudu þeir: Herra! hjálpa oss, vér forgaungum, Math. 8, 25; því hafa hinir gømlu sagt: hvar ecki er kross og mótlæti, þar er engin réttskickud bæn. Sá sem er Meistarinn til ad hjálpa, vill þó vera bedinn um hjálp, og má þad sýnast minnst verdt ad leggja þad til af sinni hálfu sér til hjálpar, ad bidja Gud um hjálp, þar hann hefir lofad ad bænheyra á neydarinnar tíma, og hans miskunsemi er sem regnid á þerri=tímanum. En svo vér verdum vissari um bænheyrsluna, skulum vér læra fyrifram ad bidja: 1) Skynsamlega; svosem oss er ómissandi ad lída mótlætid, svo er þad og ecki verdt ad afbidja þess hita, nema løgd sé undireins bænheyrslan í vald og vilja Guds. Bidjum því heldur optar um þolinmædi og gott umburdarlyndi, krapt og styrk til ad géta þolad Gudi til dýrdar og oss til velferdar; en um linun og léttir skal madur med forordi bidja, svo gjørdi Jesús sjálfur: Þó ecki minn, heldur verdi þinn vilji! 2) Bidjum audmjúklega, því audmjúka sønd aktar Gud mest. Þér hefir alltid þócknast ad bænheyra þá audmjúku og litilátu, sagdi Júdith, Kap. 9, 3; Eg voga ad tala vid Drottinn, eg sem þó er mold

og aska, segir Abraham, þá hann var ad bidja fyrir Sódóma, 1 Mós. 18, 27; Þér, Drottinn! heyrir réttlætid til, en vér megum skammast vor, segir Daniel, Kap 9, 7; Audmýkjum oss undir volduga Guds hønd, svo hann upphefji oss á vitjunartíma, 1 Pét. 5, 6. 3) Bidjum heitt og alvarlega; Gudi mislíkar sú bæn, sem er án andagtar; hvad stodar buldur varanna, ef hjartad þegir, segir Augustinus. Þú heyrir ecki til þín sjálfur og þó viltu ad Gud heyri þig. Verid glóandi í andanum, segir Páll postuli: bidjum svo heitt, ad vér gétum ei betur. Ef Guds hjarta á ad komast vid, þér til misskunar, af þinni bæn, þá lát þitt hjarta komast vid af hita bænarinnar. 4) Bidjum med stødugri trú um bænheyrsluna. Þín efasemi í bæninni gjørir mestann undandrátt á hjálpinni; þad sigradi hinn ósigranda Gud í Christo, ad hin kanverska var svo trúnd, því sagdi hann: Mikil er þin trú. Trúin er sál bænheyrslunnar, sé hún daud, þá er bænin abl-laus: Bidjum í trúnni eckért efandi, því sá sem efasamur er, hann er líkur sjáfar bylgju, sem er æst og uppvægd, segir Jacob, Kap. 1, 6; Hvad helzt sem þér bidjid, ef þér trúid, munud þér þad ødlast, sagdi Frelsarinn, Marc. 11, 24. 5) Bidjum óaflátanlega. Þrákélkni sú, sem eckjan hafdi í bæninni, vann á hinum rángláta dómara, Lúc. 11, 8; Paulus býdur, ad vér skulum bidja á øllum tímum, Eph. 6, 18; breytum eptir Jacob, sleppum ecki Gudi, fyrr enn hann blessar oss, 1 Mós. 32, 26. Veri nú svo til, ad Drottinn láti hita mótlætings-

anna verda oss svo beiskann á þessu sumri, ad oss taki til ad ómæda upp, einsog Jónam, þá grípum til þessara ráda; flýum undir þenna fjörkvíslada Jónælund, sem Gud í sínu ordi hefir oss plantad til hlífdar vid ofhita hørmúnganna: 1) hættum ad elska hid fallvalta eptirlæti veraldarinnar; 2) høldum oss einasta til Christum; 3) verum þolinmódir og audmjúkir; 4) bidjum stynsamlega, audmjúklega, alvarlega, med stødugri trú og þad óaflátanlega. Hitinn á sumrum er af sólunni, allar vorar mótlætíngar koma frá Gudi, en hann er Fadir miskunsemdanna; menn flýa í forsæluna undan hitanum: flýum, þá mótlætis hitinn ómædir oss, i nádar skjólid Drottins, þar er hin hægasta sæng ad liggja sjúkur, þar er ad finna hina beztu sálarsvølun; þar er Jesú sakleysis ábreida; þar eru líknar líndúkar Drottins; þar er undirdýna Drottins elsku og ástar; þar er hægindi Guds nádar fyrirheita; þar er fullkomin bata von á øllum lífs og sálar meinum. Gud unni oss, ad afstødnum hita tímanlegra hørmúnga, ad ødlast hjá sjálfum sér eylífann il og varma himneskrar gledi og huggunar fyrir Jesum Christum, Amen!

# 6ta Hugleiding

## af Sædinu edur Blómstrunum

Hyggid ad akursins liljugrøsum, hvørninn þau vaxa, þau vinna ecki né spinna; en eg segi ydur, ad Salomon i allri sinni dýrd var ecki svo skrýddur, sem eitt af þeim, Math. 6, 28—29.

Þad fyrsta efni til allra urta, grasa og blómstra, er sædid, sem annadhvørt fyrir alvitra nádar forsjón Guds sáist i jørdina af sjálfu sér, edur því verdur af mønnum sád, rotnar svo þar um vetrartímann, en fyrir lifandi anda edur líf, sem náttúrunni fylgir, uppvaxa þaraf á vorin adskiljanleg grøs og blómstur, eptir hvørs eins sædis tegund, svo mannleg skynsemi má stórum forundra sig þaryfir. Látum oss þetta gjør hugleida, og andlegar hugleidingar hér útaf draga:

Af grøsunum má fyrst berlega sjá almætti Drottins, ad hann af þurri og ávartarlausri jørdu framleiddi i øndverdu jardarinnar ávexti, hefir þeim i svo mørg þúsund ár, i gégnum svo marga kalda og harda vetrar-tíma vid makt haldid i náttúrunni, ad sá ávøxtur, sem spratt af jørdunni i því fyrsta skøpunarverki Drottins, sprettur ennú med sama hætti til sømu gagnsemda hentugur; þetta vitnar Jesús, talandi um síns Fødurs almætti, Jóh. 5, 17: Fadir minn erfidar allt híngadtil. Hann endurnýar ásýnd jardarinnar, segir David, Ps. 104, 30; Hann bænheyrir jørdina, segir Hóseas, Kap. 2, 2; Hann

klædir grosid á akrinum, segir vor Endurlausnari, Math. 6, 30; Gud gefur grasinu líkama, sem hann vill, og hvørju af sædinu sinn eiginn líkama, segir Páll, 1. Kor. 15, 38; Hann krónar árid med sinni gædsku, segir David, Ps. 65, 12. og lætur grasid vara á fjøllunum, Ps. 104. Parnæst sjáum vér héraf Guds alvizku, ad hann hefir skapad svo margar grasategundir, ad enginn náttúru-spekingur hefir ennþá gétad uppgøtvad hvad margslags grasategundir til eru, jafnvel þótt þeir hafi þad stórum kostgæft. Hvør sem vill athuga allann grasanna lit, løgun og náttúru, hann mun sampyckja þad David segir, Ps. 104, 24: Drottinn! hvørsu eru þín verk svo mørg og stór, øll hefir þú þau med speki sett; jørdin er full af þinni miskunsemi. Í þridja lagi minnir jardar ávøxturinn oss um nád og gædsku Drottins, sem allt þetta hefir gjørt, og því árlega vidheldur manneskjunni til gagns, gledi og eptirlætis; Eg vil géfa þínum fénadi gras af hagamum, svo þér skulud eta og verda saddir, segir hann fyrir Mósem, 5 Mós. 11, 15. og David segir, Ps. 104, 14: Þú lætur grasid uppspretta fyrir fénadinn, og jurtir mønnunum til nytsemdar. Svo megum vér nú allir enn einusinni yfir þessari gædsku Drottins í inngängi þessa sumars segja med Salomon, Ordskv. 27, 25: Heyid er uppvarid, grasid er fyrir hendi, og jurkirnar safnast á fjøllunum; og med þessari sinni gædskuríku forsjón og fyrirhyggju sedur hann allar lifandi-skepnur og þad allt vegna manneskjunnar. Í fjórda máta skulu grøsin minna oss á, ad

brúka gáfur Drottins med gódri sidsemi, audmýkt og þacklæti, en ecki med ofneÿtslu edur drambsemi, svosem vér gætum tekid þetta hjá sjálfum osſ; því annars er fyrir því ad óttast, ad Drottinn, vegna vors óþacklætis og illrar medferdar á gáfum sínum, muni svipta osſ sinni blesſan, og ecki einasta þad, heldur og láta osſ sjálfa svo-straffast, ad á osſ framkomi þad hann þeim ógudlegu og vanþacklátu hótad hefir, hjá Es. 37, 27, ad vér verdum líkir túngrasi því edur heyi sem er á ræfrum uppi, sem snarlega uppvisnar; og Davíd segir, Ps. 37, 2: ad þeir ógudlegu muni verda snarlega upphøggnir sem gras; og sømuleidis segir hann, Ps. 92, 8: Hinir ógudlegu grænka sem gras, og þeir illgjørdamenn blómgast þartil þeir verda afmádir. Í fimta máta skulu grøsin minna osſ á, ad vér blómgumst sifeldlega í øllum dygdum og dádum, sérdeilis í hlýdninni og þacklætinu fyrir þessar og adrar Drottins velgjørdir, ad vér, einsog Arons vøndur, 4 Mós. 17, 8. berum mandla, þad er, ávexti sannrar gudhrædslu, sem er til allra gódra hluta nytsamleg; því sómir ei vel, ad þessir hinir daudu hlutirnir blómgist og færi ávøxt, og þad allt osſ til gagns og nota, ad vér þá séum eitt ávaxtarlaust og kalid tré, edur þad tré, sem ber vonda áverti, hvørju í eldinn mun kastad verda, Math. 3, 10; heldur eigum vér ad blómgast sem pálmavidur, Ps. 92, 13. og standa þyckvarnir af ávøxtum andans Gal. 5, 22. og sannrar gudhrædslu; svo mun Drottinn lifga sálir vorar med þeim

andlegu blómstrum, Lofkv. 2 Kap. sinnar blessunar, nádar og miskunar. Í sjøtta máta skulu vor sumarblómstur minna oss á þad blessada blómstrid í Saron, Lofkv. 2, 1. Herrann vorn Jesum Christum, því hann mun ennþá á þessu sumri standa blómlegur fyrir sálum vorum í aldingardi sinnar kristni, og lystigardi sinna blessudu lífsins orda, af hvørju edla blómstrinu ad himneskir hunángs dropar hans blessada blóds og forþénustu kraptar til vor fljóta. Þessvegna, þá vér sjáum þann hvíta farva á grøsunum, þá minnumst hann var færdur í hvítt klædi, sér til hádúngar, en er þó raunar hvítur í sínu sakleysi, svo enginn kunni ad straffa hann um nockra synd, og hefir svo þetta blessada sálar-blómstrid vort Jesús, med sínum hvíta liljú farva, afrekad oss og géfid þad rétta sakleysi sálarinnar, og hvítann skrúda dýrdarinnar. Nær vér sjáum hinn rauda grasanna lit, þá minnumst á vora blessudu og raudu sálar-rós, Endurlausnara vorn, sem allur vard raudlitur af sínu blódi, svo hann med því sama blódi þvædi af sálum vorum allar vorar blódugar syndir og illgjørdir, og ad vér skyldum ei fyrir Guds dómi þurfa ad standa naktir af óvirdíngu vegna vorrar blódskuldar, heldur ad sálir vorar kunni svosem ad synda í blódhafi Jesú forþénustu til sæluhafnar og fødurlands þess eylífa gledinnar sumars. En sá blái litur blómstranna skal minna oss á þad, ad vor Lausnari var blár og blódrisa undan fjøtrum og svipum kvalaranna, vegna vorra illgjørda, svo vér fyrir hans benjar skyldum verda heilbrygdir,

Es. 53, 5. Keppumst því við að kasta frá oss saurfarva syndanna, en taka á oss himinbláann farva, það er: að breyta eptir blessuðum lífsreglum Lausnarans, sem af himnum ofan til vor er kominn, svo vér skyldum gánga í hans fótspor, svo hann síðar meir gjöri oss að einu dýrðarlegu himin-blómstri, í aldingarði eylífrar Paradísar. Grösin skulu í 7da máta minna oss á, hvað veikt og fallvallt þetta stundlega líf er, því segir Davíð, Ps. 103, 15: Maðurinn er um sína lífdaga líka sem annað gras, líka sem blómstrið á mörkinni; og Esaias segir: Allt hold er hey, og allur þess góði sem akursins blómstur, heyið uppþornar, blómstrið visnar, þvíað Andi Drottins blæs á það, Es. 40, 5. 6. Þessvegna skulum vér alltíð álíta, á hvað veikum fæti þetta vort líf stendur, ei upphroka oss, ei lifa ugglauslega, ei fara óvarlega með vora heilsu og líf, því aldrei veit nær enn Dauðans hvassi ljár uppskér oss frá rótum, og ættum vér þá að vera svo undirbúnir, að oss yrði safnað í kornhlöðu Drottins og bindini lifendra á himnum, 1 Sam. 25, 29. Í 8da máta skulu grösin minna oss á, hvað eymdarfullt þetta líf er; grösin mæta stormi og hreggviðri, og þá beygja þau sig til jarðarinnar, sem vilji þau flýa þángað, hvaðan þau hafa sinn uppruna; svo erum vér mörgum eymdum og andstreymi undirvorpnir. Guð hefir skapað blöðin og jurtirnar til að bera af ávörtunum hriðirnar, og menn hlaða girðingar kríngum aldingarðana grösunum til skjóls. Vernd og hlífð hins almáttuga Guðs er vort skjól og girð-

íng móti øllum háska, slísum og voda: Skyl mér undir skugga þinna vængja, segir David, Ps. 17, 8; Mannanna børn hafa traust undir skugga þinna vængja, segir haún enn aptur, Ps. 36, 8. Frá hønum erum vér í ondverdu komnir, því hann hefir skapad, endurleyst og helgad oss; til hans skulum vér einnig flýa og oss halda í stormwidri hørmúnganna og audmýkja oss undir hans volduga hønd, en upphefja oss med bæn og von til hans hjálpræðis, huggandi oss vid þad, ad fyrir margar hørmúngar hljótum vér inn ad gánga í Guds ríki. I 9da máta skulu grøsin minna oss á upprisu vors líkama; því svosem sædid rotnar og fúnar í jørdinni, ádurenn þad skal heutugt til ad gèfa af sér blómstrid aptur, eins verda vorir líkamir ad rotna og fúna í jørdinni, ádurenn þeir skulu verda hentugir til ad verda blómstur þeirrar eylífu Paradísar; þetta vitnar Páll, 1 Kor. 15, 36. segjandi: Þad sem þú sáir, lifnar ecki, nema þad deyi, svo er upprísa framlidinna, þad verdur sád í forgengilegleika, en uppris í óforgengilegleika, þad verdur sád í vansemd, en rís upp aptur í vegsemd. Og sjálfur Endurlausnari vor segir, Jóh. 12, 24: Sannlega, sannlega segi eg ydur, nema hveitikornid falli á jørdina og deyi, blífur þad einsamalt, en ef þad deyr, ber þad mikinn ávort. Ad sídustu skulu grøsin minna oss á þeirra útvøldu ásigkomulag. O, hvørsu lystileg eru þau føgru og allavega litu blómstur, svo Salomon í allri sinni dýrd var ei skrýddur sem

eitt af þeim; ó, hvørsu lystilegur mun verda ljómi og fegurd allra þeirra útvøldu á himnum! Grøsin lifna og réttast vid af hægum varma sólarinnar, sérdeilis ef þau fá vøkvann med: þeir útvøldu hafa hid mesta eptirlæti af elsku og kærleika þeirrar eylífu Rettlætis sólarinnar, vors Herra Jesú, sem dryckjar þá med straumum vellystínganna; hér eru þær hvitu liljur: þeir útvøldu klædast hinum hvita skrúda þess himneska sakleysis og fegurdar; hér eru þær raudu rósir: þeir útvøldu eru klæddir því rauda réttlætis klædinu Jesú Krists; hér eru þau grøs, sem kallast Sólseqvia edur Sólfylgéndur, af því þau snúa sér eptir sólunni: þeir útvøldu fylgja eptir Lambinu, hvørt sem þad fer. Øll grøsin, med sinni fegurd, svosem dansa og leika fyrir øndvegi sumarsins: þeir útvøldu dansa í kríngum stólinn Guds og Lambsins á því eylífa dýrdarinnar sumri; allskyns hljódfæri hljóma þar. O, þú blessada blómstrid í Saron, Herra Jesú! géf oss, ad vér á haustyrkju degi vors dauda finnumst svo blómgadir med ávøxtum sannrar gudhrædslu og lifandi trúar, ad verdugir finnast mættum ad verda innplantadir í þann eylífa Paradísar aldingard. Bænheyr þad, fyrir þína forþénustu, Amen!

# 7da Hugleiding

## af Regninu

Drottinn mun géfa þínu sædi regn, hvarmed þú munt sá jørdina, Es. 30, 23.

Ad sídustu skulum vér nú draga oss andlegar hugleidíngar af regninu, sem er ein hin bezta gáfa Drottins af hans líkamlegum velgiørníngum. Og er þad fyrst athugaverdt, ad eg finn í heil. ritníngu gétid um tvennslags regn, nefnilega: regn reidinnar og regn nádarinnar; því hinu fyrra spáir David þeim ógudlegu, er hann segir: Hann mun rigna láta yfir hina ógudlegu leyptran, eldi og brennisteini, Ps. 11, 6; hvílíkt reidinnar regn útvegadi Samúel med bæn sinni til straffs yfir fólkid, fyrir þad, ad þad hafdi bedid um konúng, 1 Sam. 11, 17; Þanninn lét Drottinn rigna yfir hina fyrstu veröld í Nóa flódi, til ad drekkja øllu syndugu holdi, og fyrir þad sama hans reidi-regn, elds og brennisteins, fyrirfórst Sodóma og Gommóra. Vid þetta Guds reidiregn á þad skyldt, þegar hønum þóknast ad láta koma óáran þerrileysis og ydugleg votvidris yfir ávørtu jardarinnar, edur abla sjáfarins, svo hann verdur ei verkadur til notkunar; kémur svo tídum á eptir húngur og manndaudi, sem og skéd hefir í vorù landi, og optar enn eitt sinn. Hin helzta orsøk til þessa eru glæpir og illgjørdir mannanna: Þegar menn hafa svo lángvaranlega þád og medtekid þessar gáfur Drottins,

ad þeir ecki einasta leggja hønum þær aldrei einusinni vel í þøck, einsog þeim væri þetta enginn gódi, edur og Gud væri skyldugur ad géfa svo almenna velgjørninga, þó aldrei fái hann þarfyrir eitt ord til þackar; heldur og þaradauki eru sumir svo gudlausir, ad þeir lasta þessar gáfur Guds, hæda ad þeim og formæla, svo þad er stór Drottins nád, ad hann lætur ecki rigna yfir þá hagli og eldingum, er þannig forakta og lasta hans nádarfulla stjórnan á hans sképnum. Litid þenkja þessir eptir því, þá Gud sló med óvedri 5 konúnga Ammóritanna med øllum þeirra herfylkingum, Jós. 10, 10. edur þá hann hrædди og sló Philisteana, er þeir strídди mót Israels børnum í Samúels tíd, 1 Sam. 7, 7—14; edur þá hann sló Egyptalands ávøxtu, tré, fólk og fénad þeirra, sem forsмádu ord Drottins, er Móses taladi, 2 Mós. 9. Ad eg nú ecki tali um sannferdugt dæmi Drottins reidiregns, sem optlega hafa sídan skéd; þetta ætti nú allt ad koma oss í hug med inngángi þessa sumars, ad þad uppvekti hjá oss audmjúka ydran fyrir vanþacklæti vort, sem svo margfaldlega hefir af oss vid vorn góda Gud framkomid; svo ef ské kynni, ad Drottinn hefdi oss fyrirhugad ad lída refsíngar med óáran nockurri á eptirkomandi sumri, fyrir undangengid óþacklæti og illgjørdir, ef hann þá kynni ad snúa frá sinni reidi, vegna vorrar ydrunar og yfirbótar, og láta oss njóta síns Sonar árnanar og forþénustu, því hann er Gud mikillar þolinmædi og lánglundargéds, og snarlega ydrar hann straffsins, 2 Mós. 34, 6. Ein-

setjum oss ad þyggja aldrei svo velgjørdir Drottins, ad vér ecki leggjum þær vel í þøck, þvi svo segir hann siálfur: Hvør hann offrar þacklætinn, hann heidrar mig, ог þad er vegurinn, ad eg sýni hønum mitt hjálpræđi, Ps. 50, 23. Ef vér svo gjørum, þá er Gud vís ad stjórna høfudskepnunum oss svo í hag, ad jardarinnar ávextir verdi oss til blessunar og gódra nota, bædi fyrir oss og vorar skepnur. Gud vardveiti oss, fyrir Jesú Krists skuld, frá óþacklæti og allri synd, og láti ei koma yfir oss vort forþént straff; heldur yfirdøggvi oss med sinn blessada nádarregni!

Nú viljum vér athuga Nádar-regnid Drottins; þad er og tvennslags, andlegt og líkamlegt; um hid fyrra talar Ezechias, 34, 26: Eg vil blessa þá og allar minar hædir allt um kring, og láta rigna yfir þá í réttann tíma, þad skal vera ein blessunar døgg. Eptir þessu nádarregni lángadi Esaiam innilega, og því segir hann: Drjúpi þér himnar hér ad ofan og skýin rigni réttlætinu, Es. 45, 8; sømuleidis segir hann, Kap. 64: Æ, ad þú sundurslitir himnana og kæmir hér ofan. Þetta nádarregn er siálfur vor Herra Jesús Kristur med øllum sínum nádar velgjørningum; því segir David, þá hann talar um Krists hingadkomu í holdinu: Ofan mun hann koma, sem døgg yfir ullar-reifid, Ps. 72, 6; og þetta sagdi hann af því, ad Krists getnadur var fyrirmindadur med nádardøgginni, sem kom yfir gæru Gideonis, Dóm. 6, 37. Þetta himneska nádarregnid yfirdøggvar þá gódu jørdina, sem er gott

og gudhrædt hjarta, med blessudum nádardropum himneskra huggana í Guds ordi, sem allir hafa sinn uppruna frá þeim vøkvamikln skýum blessadra Jesú Krists blodrigninga, því hann hefir sitt blód til þess útgéfid, ad oss skyldu Guds nádar fyrirheit prédikast, og þau hafa øll sinn krapt af Jesú blóds úthellingu, og í hønum eru þau já og amen, 2 Kor. 1, 20. Fyrir þessa himneska nádardøgg uppspretta í mannauna hjørtum allrahanda dygdanna lystileg blómstur, svosem eru: kærleiki, fognudur, fridur, lánglundargéd, gódgirni, gódfýsi, trú, hógværd, bindindi, Gal. 5, 22; þessari nádar-døgg rigndi fyrst, þá Drottinn sagdi vid vora fyrstu foreldra: Kvinnunnar sædi skal í sundurmerja høggormsins høfud, 1 Mós. 3, 15; sídan frameptir øldunum rigndi henni eins og annari náttdøgg, med úthellingu fórnfæringanna blóds, og í huggunum fyrirheitanna um Messiam; en í Krists híngadkomu féll hin mesta steypidøgg Drottins nádar og elsku yfir allt mannkynid; þá byrjadist dag-rigning Jesú Krists nádarfullu dásemdarverka og huggunarfullu kénninga, ásamt med blódskúrum hans umskurnar sára, sem voru svosem heilnæmar morgunskúrir, tempradar med hita og varma hans guddómlegrar elsku til vor; sú dagrigning hélzt vid í allri hans pínu, og varir enn þá í andlegann máta í hjørtum allra Guds barna fyrir prédikun orda Drottins, hvaraf øll sorgmædd hjørtu fá blessada sálarsvølun og lestíng í hita hormúnganna. Lofad og blessad sé nafnid Drottins, og géfi oss á fyrstu døgum þessa

sumars, sem alltid, sínar blessudu nádarskúrir í sumargjøf, sem vøkvi svo ríkuglega aldingard vors hjarta, ad í því mætti, hønum til eptirlætis, en oss til farsældar, uppspretta blómstur trúarinnar, urt bænarinnar, rós-gudhrædslunnar, epli elskunnar, innilegt þakklæti og lifandi von. Þad annad Nádarregn er vort náttúrlega regn, sem hann gefur yfir vora akra og engjar, aldini og grøs, þeim til frjófgunar og skèpnunum til fódurs og vøkvunar, því segir Páll, Post. gb. 14, 17. ad hann veiti oss mikid gótt og géfi døgg af himni og frjóssama tíma, uppfyllandi vor hjørtu med fædslu og føgnudi; hvarfyrir og Drottinn líkir sinni miskunsemi vid þvílíka døgg, hjá Hóseas, Kap. 6, 4: Sú nád sem eg vil veita ydur, skal vera sem eitt daggarský um morguninn, og sem døgg sú sig árla útbreidir; og í Kap. 14, segir hann: Ef þér gángid eptir mínum setníngum og haldid mín bodord og gjørid þau, þá vil eg géfa ydur regn á sínum tíma, jørdin skal og géfa sinn gróda. Um þetta nádarregn kémst Móses svo ad ordi, 5 Mós. 28, 12: Drottinn mun uppljúka sínum góda féssjód himninum, til ad géfa þínu landi regn á sínum tíma, og blessa øll þín handaverk; og med þessum greinum verdur oss yfirbevísad, ad þad er nád Drottins ad þacka, þá hann géfur regn á jørdina. Þessa ættu þeir ad gæta, á hvørja eg fyrir skømmu minntist, sem gjarnir eru ad møgla á móti verduráttunni, og jafnvel einni skúr, ef hún fellur ecki þeim í hag, og vita skulu þeir þad, ad þó lángvarandi úrfelli ónýti vora lífsbjørg og jardar ávøxt,

þá orsakast það vegna synda þeirra og ógudlegs vanþacklætis; já, þessir orsaka það, að Drottins náttúrlegs nádarregns brunnar verda stundum svo uppþurkadir, að ecki rignir í heillánga tíma, svo jørdin springur í sundur, af því það ecki rignir á hana, einsog þar segir hjá Jeremías: Þeir segja ecki einnsinni í sínu hjarta: látum oss óttast Drottinn vorn Gud, sem géfur oss morgundøggina og kvøldregnid í réttann tíma. Þessvegna tekur nordanvindurinn burt regnid, segir Salómon, Ordskv. 25, 23. Já, það hefir skéd jafnvel hjá oss í þessu landi, sem Drottinn hótadi Israel, ef hann þverskalladist og vildi ecki hlýdnast sínum Gudi, að hann skyldi géfa yfir landid rik og øsku, fyrir regn af himni, 5 Mós. 28, 24; hefir svo himininn innihaldid sinni døgg og jørdin sínum gróda, Hagg. 1, 10. þá hann hefir bodid skýunum, að ei rigndu þau yfir hina ógudlegu, Es. 5, 6. Stundum hefir hann látid yfir einn stad rigna, en ecki annann, svo einn akurinn féck regn, og hinn annar féck ecki regn, einsog Spámadur Amos að ordi kémst, Kap. 4, 7. O, hvørsu dýrmætir hafa þá ordid daggar-droparnir, þeir hvørjum gudlausir syndanna þrælar skirrast ei vid að formæla, þegar þeim þykja þeir ecki falla sér í hag. Mikil er nád og gædska þess milda miskunsemdanna Fødurs, er samt sem ádur lætur sitt blessada frjófgunar-regn rigna svo vel yfir vonda sem góda, Math. 5, 45. Fordumst þessara dæmi, gætum heldur að því, að það eru fleiri enn þúsund blessanir í hvørjum daggardropanum, sem Drottinn

veitir oss, og dýrmætt þykir regnid á veturnar, þegar jørdin er yfirþakin med svell og snjó; fylgjum því rádum Zachariæ spámanns, Kap. 10, 1. er hann segir: Þarfyrir bidjid um kvøldregn af Drottni, svo mun Drottinn gjøra ský og géfa ydur nóga døgg til alls gróda á jørdinni; þá munu vorir akrar og eingi medtaka blessun af Drottni, Ebr. 6, 7. Virdum siseldlega fyrir oss tilgáng Drottins í øllum efnum, sem er sá, ad hvørt sem oss finnst bláśa med edur mót, hvørt sem yfir oss rignir hagl edur heilnæm vorskúr, þá gjørir hann þad til bezta, og hans ásetningur er aldrei annar enn ad bera umsorgun fyrir sinna barna tímanlegri og eylífri velferd.

Samlíkingar, sem hérútaf má draga, eru margar og mjøg eptirtakanlegar; einsog þad, ad regnid er til þess géfid, ad þad skuli vøkva jørdina, svo vøkva og hugsvala nádar-fyrirheit Drottins hreldum og ángrudum sálum, sem eptir hønum þyrsta. Krapa-skúrirnar eru ad sønnu kaldar, en sólar varminn gjørir þær hagkvæmari til gródursins; blessud nád og forþénusta Jesú Krists þýdir og vermir þær hørdu hretskúrir løgmálsins straungu hótana, fyrir nádarfullann varma sinnar elsku og Evangelii préd-ikunar. Regnid ad ofan komid seidist í jørdinni, og fyrir krapt sólarinnar dragast því meiri vessar upp í loptid, sem aptur verda ad frjóssømu regni; þad blessada Guds ord, sem Sonurinn úr Fødur-sins skauti hefir oss opinberad, uppdregur fyrir krapt H. Anda (hvøru Sonurinn hefir oss gefid) ydrunar og bænar vøkva, sem aptur afrekar oss yfirfljótan-

lega døgg Guds føðurlegrar miskunar og velgjørníngа. Skúrunum fylgja skinin ámilli, og eptir skúr kémur skin; svo blandar og temprar Drottinn opt og tíðum medlætis skin sinna barna med mótlætíngаnna skúrum, því sorgin og gledin verda opt samferda; krossinn er aldrei af hønum svo uppálagdur, ad þar fylgi ecki einhvør blessud línkindi med til vægdar. Regninu fylgir opt stormur; mótlætinu fylgja opt freistíngar, svo ein eymd býdur annari heim. Þá sést hvad gód og ávaxtarsøm jørdin er, þá hún fær nóg regn; þá sést hvad einn er trúadur, þolinmódur, bænrækinn, kærleiksfullur og dygdugur, þegar steypidøgg hørmúngarinnar lemur á hønum. Því lengur sem einn hlutur rignir, því hreinni og hvítari verdur hann; því lengur sem einn reyníst í mótlætinu, því fremur hreinsast hans líferni frá saurugum syndanna verkum. Grøsin þúngud af regnvætunni lúta nidur og svigna; krossinn gjørir manninn audmjúkann og kénnir hønum ad litilæcka sig undir volduga Guds hønd. Í regninu leita menn skjóls og húsa; í ágiftinni leita menn Drottins. Það er vid vindinn þurkad, sem í vætunni voknar; hugsvølun Drottins Anda huggar þau af hørmúngunum hryggvu hjørtu. Þar verda vøtn í regninu, sem ádur var þurr jørd; krossinn kémur út á þeim tárunum, sem ádur vildu ei gráta sínar syndir fyrir Gudi. Sólin uppþurkar það vota, sem í regninu féll; Gud þurkar sorgartárin af sinna barna augum. Í Dalverpunum nemur regnid helzt stadar; í litilátum hjørtum nema Guds nádar og

miſkunar ſkraumar helzt ſtadar. Eptir lángvarandi vetvidri er von á lángvarandi léttvidri og ſólſkini; eptir lángſamlegt veraldar volædi mega øll Guds børn búaſt vid ſifeldu ſólarſkini þeſs eylífa lifsins. Eptir næſtaflidinn vetur er nú komid gledilegt ſumar; eptir allar vorar aumu hérviſtir og hørmúnganna vetrar-hørkur mun óendanlegt blídvidri þeſs himneſka dýrdar-ſumarſins bada ad vorum ſálum; þar mun ei ſteypiregn ángiſtarinnar oſs væta, ei hagl heimſins oſſókna lemja, ei ſtormur freiſtínganna ábylja, ei kuldi haturſins kæla, ei hiti mannraunanna brenna, ecki ſvækja veraldarinnar vaſturs fyrirglepja, heldur mun af øllum þar komnum øllu ángri létt verda. Þar kémur lokſins þad kvídalauſa ſumar, ſú ſtøduga ſæla, þad ſkúralauſa ſkinid; þar eru þau blómſtrin, ſem aldrei følna, ſú ſól, ſem aldrei undirgengur, þad ljós, ſem aldrei ſlocknar, ſú gledin, ſem aldrei dvínar, ſú audlegdin, ſem aldrei þverrar, ſú heilbrygdin, ſem aldrei kenkiſt; þar er fenginn klædnadur fyrir nakleikann, hiti fyrir kuldann, ſvølun fyrir þorſtann, ſadníng fyrir húngrid, audlegd fyrir fátæktina, hvíld fyrir lúann, ljós fyrir myrkrid, fødurland fyrir útlegdina, frelſid fyrir fángelſid, heilſa fyrir ſjúkdóminn, æſka fyrir ellina, lífid fyrir daudann, og eylíf, óendanleg ſæla fyrir ſtundlega eymd og armædu.

O, Jeſú, þú bleſſada ſumarſól! verm þú oſs! þú bleſſada ſumarljós! upplýſtu oſs! þú bleſſada ſumar-blómſtur! endurnær þú oſs! Medtaktu nú í nád þeſsar vorar lítilfjørlegar ſumargáfur, og gjør

þær þacknæmilegar fyrir þínum himneska Födur. Géf oss ad útenda svo allar vorar æfistundir, ad oss sé því vísara ad fá ad njóta þess eylifa dýrdar-sumarsins, sem vér erum nær daudanum!

Þér, eylífi Gud og himneski Fadir! sé lof og dýrd! Þér, Jesú Christe, Guds Sonur! sé heidur og þackargjörd! Þér, ó gódi H. Andi! sé prís og vegsemd! Blessud sértu heilög þrenning og þú ódaudlega eining í frá þessu og um alla eylifd, Amen! fyrir Jesúm Christum, Amen!

# Sjö Hugleidingar

sem lesast kunna í inngaungu vetrar.

## 1ta Hugleiding

af Vetrinum.

Drottinn! hvørsu eru þín verk svo mørg og stór, øllum hefir þú þeim med visdómi nidurskipad; jørdin er full af Guds miskunsemi, Ps. 104, 24.

Forsjón og fyrirhyggja hins lifanda Guds, sem hann lætur oss sjá og formerkja í allri sinni stjórnan, er svo dásamlegur og sannleiksfullur vottur hans gædsku og fødurligrar þolinmædi vid oss mennina, ad eckért manns hjarta, sem þad réttilega og med gaumgæfni athugar, kémst hjá því ad upphrópa af stærstu forundran þaryfir med framansøgdum Davids ordum: Drottinn! hvørsu eru þín verk svo mørg og stór. A þessa hans guddómlega forsjón minnir oss nálægur tími, á hvørjum vér megum medkénna, ad hann vísdómslega hafi því nidurskipad, ad vér høfum enn einusinni uppbyrjad einn vetrartíma, eptir afstadinn gledilegann sumartíma. En hvad er í þessu helzt adgætandi? Guds fød-

urleg forsjón og fyrirhyggja, sem berlega hefir augljýst sig á øllum hlutum bædi á himni og jørdu á þessu sumri, þvi himininn og jørdin standast fyrir Guds krapt, segir Pétur, 2 Pét. 3, 5. Og svosem hans blessud forsjón hefir nú øllum hlutum stjórnad oss i hag, svo látum vort þakklæti í inngaungu þessa vetrar vera medal annars helzt i því innifalid, ad yfirvega oss til þakklætis uppørfunar, hvilika umsorgun hann hefir borid fyrir oss á undanfarandi, ber ennþá fyrir oss á yfirstandandi, og mun bera fyrir oss á eptirkomandi timum. Gud styrki oss hértil med sinni nád í Jesú nafni, og láti þetta verda sér til dýrdar, oss til farsældar og blessunar andlegrar og likamlegrar, timanlegrar og eylifrar, Amen!

Ef vér viljum athuga Guds fødurlega forsjón vid oss á undanførnum timum, þá litum lengra fram, enn til þeirra timanna, sem næstir hjálidu. 1) Hvør bar umhyggju fyrir oss ádurenn vér vorum til? Davíd svarar héruppá og segir; Þín augu sáu mig, þegar eg var ennú ecki skapadur, og þessir hlutir voru allir skrifadir í þina bók, Ps. 139, 16. þad er: hann hefir laungu fyrr, enn grundvøllur veraldarinnar lagdur var, uppteiknad og ályktad i bók sinnar eylifu forsjónar, ecki einasta hvør vera skyldi sá seinasti dagur vors lifs, heldur hvad yfir oss skyldi koma á hvørjum degi, hvønær vér skyldum mindast i módurlifi, hvørsu oss skyldi þar lída, hvønær þadan útfara, hvad á vora daga skyldi drifa í þessu lifi; hvørt vér skyldum verda rikir, hvørt fátækir,

hvert og hvenær búá vid medlæti, edur mótlæti, hvad lánglífir, hvad skammlífir vèr skyldum verda; því sagdi hann vid kónginn Cýrum, Es. 45, 3: Eg kalladi þig med þínu nafni og nefndi þig, þáeð þú enn þecktir mig ecki, þad er ad segja, ásetti að láta þig verda kouúng; og þessi spádómur segja þeir lærdu, ad hafi verid framfluttur af Esaia, 200 árum fyrir Krists fæding; 300 árum ádurenn Jósias kóngur fæddist, kalladi Gud hann med sínu nafni, og sagdi hann skyldi aptur helga altarid i Bethel, 1 Kóng. 13. Svo hefir Gud þá í himninum fyrir laungu ályktad, ad þad skyldi yfir oss koma, sem vèr höfum á umlidnu sumri reynt, hvert oss þókti þad blídt edur strídt, þarfyrir er gott öllu því ad taka, sem hann vill vera láta. 2) Eins bar hann umhyggju fyrir oss í fædíngunni, því segir Salómon, Prédik. 3, 1—2: Allir hlutir hafa sinn vissann tíma, *tími er til ad fædast; þú, minn Gud!* útleiddir mig af minnar módur lífi. Þad dásemdarverk Guds forsjónar höfum vèr opt mátt sjá og tilspyrja á umlidnu sumri, yfir hverju öll veröldin má dádst og falla í forundran, jafnvel þó þad sé ad litlu lagt, af því þad skédur daglega. En hver er svo blindur, hann sjái þar ecki augljósa Guds tilhlutan? hvad gétur módirin tilhjálpad? og flestar á medal vor til þeirra starfa kosnar kunna lítt ad því verki, svo allt fari vel; hver er þá ljósmódur höndin hollust? þad er þín hjálpar og miskunarhönd, minn Herra og minn Gud! Rachel dó af barnsburdi, þó var Benjamíns ættlidur sá helzti, 1 Mós. 35, 19.

Hvørsu mikla affókun mun Djöfullinn ecki hafa ad drepa þau børn í fædíngunni, sem hann gruna mundi ad Guds kristni kynnu ad verda til uppbyggíngar? hvørsu mundi fara, ef Guds forsjón sæi þá ei bezt til? honum einum er þad ad þacka, ad þá er allt vid høndina sem medþarf handa barninu, og hans englar ad taka þá sképnu strax í vøktun, hvørja þeir eiga ad bera á sínum høndum, ad ei steyti hún fót sinn á steini. 3) O, hvad nákvæmlega leit hans blessud forsjón til vor í úngdóminum og uppfóstrinu, þarum megum vér allir segja med Jób, 10, 12: Þitt tillit (adgætni) hefir vardveitt minn andardrátt; einnig segir David, Ps. 22, 10: Þú varst mitt hjálpartraust, þá eg var enn á minnar móðurbrjóstum, þú ert minn Gud allt í frá minnar móðurkvidi. Guds miskunsemi var sú ljósmódir, sem tók oss fyrst í skaut, og ærid skamt nádi forsjón vorra foreldra ad vakta oss fyrir øllum Djöfulsins skadsemdum, er hann lagdi í veginn fyrir oss á skeidi vorrar æsku. Til ad minnast þessara Guds velgjørninga eiga sérhvør tímanna umskipti ad uppørfa oss, svo vér med þesskonar heil. hugleidíngum þøckum fyrir og endum vel þá umlidnu, en helgum og blessum þá eptirkomandi tíma. 4) Þessari sinni blessadri umsorgun hefir hann sídan allt til nálægs tíma framhaldid vid oss, og ennþá á næstumlidnu sumri breytt vid oss, sem einn elskulegur Fadir vid sín ástkær børn. Hann ól ønn fyrir sálum vorum, ad þær skyldi aldrei á bord bresta, heldur skyldi þeim sífeldlega svalad verda á hans miskunarstraum-

um, og þær skyldu verda endurnærdar med því himneska manna hans blessudu lifsiùs orda; hans forsjón var yfir vorri næringu, höndlun, útréttingum', og öllu því vér tókum oss fyrir höndur ad gjöra; hann sendi oss blessun af himninum, hann gaf ávørt á jördina bædi fyrir oss og vorar sképnur; hann sendi oss blessan gégnum hafid úr ödrum löndum; hann færdi og flutti hvörneinn af oss til þess stadar, hvar vér söfnudum hans blessan til vor; hann flutti oss og sinar gáfur med oss yfir allann háska og torfærur slisalaust dag eptir dag. Hvörsu margur hefir yduglega med vodaleg verkfæri höndlad, já, og þad stundum mjög óvarlega? en alls enginn edur mjög fáir skadad sig; mundi þad vera vorri varfærni ad þacka? nei lángt fra! heldur Guds födurlegri forsjón og atgæzlu, og þad midt í því vér vorum ad módga hann og styggja, bædi med vitanlegum og óvitanlegum illgjördum vorum. Hvör skyldi ei komast vid í sinn hjarta af yfirvegun þvilíkrar Guds gædsku og födurlegrar fyrirhyggju, andvarpa af hjàrta og segja: Minni er eg, Drottinn! öllum þínum miskunsemdum, er þú lætur fram vid oss koma; Item: Hvad skyldi eg Drottni endurgjalda fyrir allt þad gott, sem hann hefir gjört vid mig; Lof seg þú önd mín Drottni! 5) Nú, ef vér athugum þann yfirstandandi tíma, þá byrjum vér einn vetur í dag; en í hvörju ásigkomulagi edur standi? Eg svara: undir nádarfullri stjórnan hins gædskurika Födurs, allir heilir og heilbrygdir, ásamt allir vorir ástvinir; vor hús og heimili eru ennþá,

og allar vorar skèpnur undir hans blessadri vernd og varatekt. Þvi sem hann útdeildi oss í sumar, høfum vèr safnad í vorar kornhlødur; blessad sè nafnid Drottins! Hèryfir megum vèr fagna, ad hann er ómumbreytanlegur í sinni gódgirni og miskunsemi; en ef nockurn brestur, svo hann hefir ei allt fyrir augum sèr, þad hann fyrir sitt hús medþarf til vetrarins, þá er gott vid þad ad una, ad Gud vill svo hafa þad; verdi hans vilji! Vørpum því allri vorri áhyggju uppá hann, hann mun því øllu vel til vegar koma; vor himneskur Fadir veit, ad vèr þurfum alls þessa vid; þad er vel, þó hann geymi vort bjargrædi, þartil vèr þurfum á ad halda; hans hægri hønd er ecki svo stutt ordin, ad hann kunni ecki, og hans miskunar hjarta ecki svo hardt, ad hann vilji ecki hjálpa: á degi hjálprædisins hjálpar hann oss; þad er miklu betur geymt hjá hønum enn oss, sem hann ætlar oss og vorum ad lifa af; verum ad eins ánægdir med þad, sem yfirstendur; enginn af oss er svo ørbyrgur, ad hann eigi ecki Gud ad, og þad rídur á mestu, því nær vèr adeins høfum hann; þá hyrdum vèr hvorki um himin nè jord, Ps. 73, 26; medan hans hønd heldur fastlega med oss, og hans armleggur styrkir oss, Ps. 89, 22, þá er nóg, því þad kèmur ecki af austri nè vestri, ecki heldur af fjøllunum í eydimørkinni, Ps, 75, 7, sem vid eigum ad bjargast vid, heldur kèmur þad ad ofan frá Fødur ljósanna, Jac. 1, 17, og vor hjálp kèmur af Drottni, sem skapad hefir himin og jørd: Ef vèr óttumst hann, þá lætur hann oss ecki lida

skort til lengdar, Ps. 34, 10. 6) Hans forsjón mun og líta til vor á eptirkomandi vetri; engin orsök er til þess ad vér berum kvída fyrir hønum; sá konúnglegi Spámadur David hefir opt og mørgum sinnum ítrekad þessi ord: Hans miskunsemi varir eyliflega; ecki gjørir Davíd þetta af rádleysu, heldur af ásettu rádi heil. Anda, svo allir skuli hafa í minni þessi ord á øllum timum og tíma-mótum; hans miskunsemi hefir varad, varir enn, og mun vara yfir úngum og gømlum, ríkum og fátækum; einsog sólin hefir skinid, skín enn og mun skína, og þreytist ecki, heldur gledur sig ad hlaupa sinn veg, Ps. 19, 6; svo er Guds miskunsemi, hún er hvørn morgun fersk og ný: Þad skal vera mín gledi ad gjøra þeim gott, segir hann hjá Jeremias, 32, 41; sá straumur þverrar aldrei, þad ljós slocknar aldrei, þessi vor Gud hann er vor Gud alltid og æfinlegá, Ps. 42, 12. Hvarfyrir kvídum vér þá vetrinum? þó vore ástand kunni í nockru, já, í mørgu hjá sumum, líta út til vesældar; hvarfyrir syrgir þú þá? hví kvídir þú þá? fyrst Guds miskunsemi varir eyliflega. Þegar eg yrdi þess var, ad Gud léti af ad vera miskunsamur, léti af ad stjórna, vernda, hjálpa og blessa, þá vilda eg fyrst kvída fyrir alvøru, þá vilda eg bera mig hørmuglega. Þarfyrir, þá þú, ó madur! hugsar fyrir vetrinum, þá seg einsog Abraham: Gud mun sjá fyrir fórninni, 1 Mós. 22, 8; eins geck þad Jacob, þá hann kveid fyrir dýrtídinni, hann vissi þá ecki ad Gud var búinn ad setja Jóseph i veldin, svo hann gæti hjálpad

uppá hann, 1 Mós. 42. Guds Sonur spurdi: Hvar kaupum vér braud, svo vér fáum þá mettad? en hann vissi vel, hvad hann vildi gjøra; Gud veit nóg rád til ad hjálpa, þó vér vitum ecki. Þessir og þvílikir þánkar eiga ad koma upp hjá oss, þá vér førum ad kvída fyrir seinni timunum. Þegar eg hugsa til vetrarins og hvørsu litinn forda eg hefi fyrir mitt hús, þá ætla eg ad segja med Davíd, Ps. 31, 20: Drottinn! hvørsu mikil er þín gódgirni, hvørja þú hefir geymt þeim sem þig óttast. Gædska Guds er opt og tídum hulin í lángann tíma fyrir oss, og þaraf orsakast vor kvídi og vilsemi, en á sínum tíma auglýsir hún sig svo lystilega, ad þad er unun ad reyna og sjá. Þú segir opt: Hvør mun velta fyrir oss steininum af grafar munnanum? en þá sá tími kémur, sem þú kveidst mest fyrir, þá sér þú ad steinninn er afveltur. Hvørjum viltu befala þína sál í daudanum? þú segir: minum Herra Jesú Christo: þú svarar rétt; Eg befala mína sál í þínar hendur, þú trúfasti Gud! segir Davíd, Ps. 31, Ef vér vogum ad befala hønum í daudanum svo dýrmætann fjársjód, sem sálin er, því vogum vér þá ecki ábyrgjast hønum í lifinu þad miklu minna er verdt; þarfyrir, sá Gud, sem hingadtil hefir alid ønn fyrir oss, og greidt alltíd dásamlega úr vorum vandrædum med sinni guddómlegri speki og almætti, hann mun og vel sjá fyrir voru rádi á eptirkomandi vetri; því skal engu kvída, þó óvænlega þyki áhorfast í einhvørju; þóknist hønum ad láta oss lifa, þá lifum vér fyrir þad medal, sem

hann finnur fyrir gott ad hjálpa oss med; en þóknist hønum ad láta oss deya, þá deyum vér Drottni, svo hvørt vér lifum eda deyum, þá erum vér Drottins. Komi þad uppá, sem koma vill, hann vill þá svo hafa þad, þad er bezt sem hann vill; látum oss nægja þad tilstand, sem Gud setur oss í, hvørt sem þad verdur medlæti edur mótlæti; spyrjum ecki einsog Pétur: Hvad skal þessi? heldur segjum med David: Eg vil þegja, og ecki mínum munni uppljúka, af því þú gjørdir þad, Ps. 39, 10; høldum med Gudi en móti sjálfum oss; syngjum og segjum af hjarta: Verdi ætíd hvad vill minn Gud! edur med Páli, 2 Kor. 12, 10: Fyrir því em eg med gódu traustí (þad er: vel ánægdur) í breiskleikanum, í forsmáninni, í ofsókninni; item med Davíd: Befala þú Drottni þína vegu, og vona á hann, hann mun því vel til vegar koma. Sá sami miskunsemdanna Fadir géfi oss, ad þessi eptirkomandi vetur verdi oss øllum blessadur og farsæll, snúi frá oss allri ólucku bædi lifs og sálar, en sendi oss heppni og hamíngju til allra vorra útréttínga, hann uppfylli alla vora naudþurft eptir sínum dýrdar ríkdómi í Drottni vorum Jesú Christo, Amen!

# 2ur Hugleidíng

## af Túnglinu

Þackid Drottni, því hann er gódur, og hans miskunsemi varir eyliflega, hønum sem gjørdi túnglid og stjørnurnar ad stjórna nóttunni, því hans miskunsemi varir eyliflega! Ps. 139, 1. 9.

Ad verti og birtu er túnglid þad himinljós, sem sólunni er líkast fyrir vorum sjónum, hvarfyrir Móses segir, ad Gud hafi gjørt 2 stór-ljós, þad stærra ljósid ad stjórna deginum, en þad minna ad stjórna nóttunni, hvar hann án efa meinar sólina fyrir þad stærra, en túnglid fyrir hid minna ljósid. Gudi sjálfum líki eg vid sólina, og svo gjørir Malachías, 4 Kap. því hann er lángtum fegri og dásamlegri enn allar þær skepnur, sem hann skapad hefir, jafnvel þó þær séu allar harla gódar af hønum gjørdar. En næst hønum kalla eg ad gángi sanngudhrædd manneskja, og þad fyrir þá orsøk, at ritníngin kallar þá gudhræddu brúdur Krists børn edur syni Guds, Joh. 1, 12, erfíngja Guds og medarfa Krists, Róm. 8, 17. brædur Krists, Jóh. 20, 17. lidi og limi Krists, 1 Kor. 12, 12. musteri heil. þrenníngar, Joh. 14, 23. og fæddir af Gudi, Jóh. 8, 42. einninn fyrir þessar samlikíngar. Þessvegna er túnglid eitt hid fegursta ljós, ad sólarinnar birta stígur ofan til þess og yfirlýsir þad; manneskjan er þessvegna ein veglegasta skepna Guds, ad sú blessada Réttlætissól Jesús sté nidur i hennar hold, og samtengdi

því sína guddómlega náttúru; og vilji nockur segja, ad englarnir gángi næst Gudi ad vegsemd og sóma, þá hefir þó Kristur ecki þá, heldur Abrahams sæti uppá sig tekid. Túnglid er eitt hid minnsta himintúngl, en sýnist stórt sokum þess þad er oss svo nálægt; hvarfyrir skyldum vér ecki álíta og athugasamlega yfirvega vort eigid ásigkomulag, sem erum næstir sjálfum oss, og gæta þarad, ad vér, vegna Adams syndar, vorum ordnir sú minnst verda og vidurstyggilegasta skêpna fyrir Guds augliti, og þad erum vér ennþá af náttúrunni til born reidinnar, Eph. 2, 3. syndarinnar þrælar, Jóh. 8, 34. Ef vér nálægjum oss ordi Drottins, þá sjáum vér oss, fyrir Krists forþénustu, næsta stórann veg og virding hlotid hafa, þar vér nú fyrir trúna á hann erum Guds born ordnir og brædur Krists, Ebr. 2, 11. samborgarar heilagra og heimamenn Guds, Eph. 2, 19. synir ljóssins, Eph. 5, 8. heilog þjód, konúnglegur kénnimannskapur, 1 Pét. 2, 9. og sjáaldur Guds, Zach. 2, 12. O, hvílíkur vegur og virding er þetta! Túnglid hefir síná birtu af sólunni, ef hún skini ecki á þad, þá væri þad oldúngis dymmur líkami; enginn fær vorn skilning upplystann í sáluhjálplegri þeckingu Guds og hans orda, nema Sól réttlætisins Jesús, sem upplýsir alla menn, er koma í þenna heim; hvad loflegt er, hvad gofugt, ástúdlegt og gott er, í, med og hjá oss, þad er af honum, og af hans fyllíngu hofum vér þad medtekid, og fengid nád fyrir nád, því í honum erum, lifum og hrærumst vér, Postg. 17, 28. og hann er oss

af Gudi gjørdur og géfinn til vísdóms, helgunar og eylífrar endurlausnar, 1 Kor. 1, 30. Túnglid upplýsir þá myrkvu nótt; gott nafn og líferni eins sannguðhrædds kristins manns er sem eitt skridljós, eptir hvørju hinir adrir eiga ad regla sínar gjørdir. Túnglid ver og mínkar, edur réttara ad segja, þess ljómi og birta; kristnin Guds hefir frá upphafi ýmist mínkad fyrir offóknirnar, edur varid fyrir nádarfullt yfirskin gudlegrar hjálpar og vidurkénningar; hvad hid sídara vér eigum hjartanlega ad þacka þeim himneska ljósanna Fødur, ad ennú til nálægs tíma vidheldur hann sinni kristni hjá oss med réttri kenníngu Guds ords og regulegri tídkun sakramentanna; blessad sé hans nafn ad eylífu, og géfi ad hún lídi enga formyrkvun offóknanna né villulærdómanna á þessum vetri, heldur ad hún blómgist sem einn plantadur Guds víngardur allt til veraldarinnar enda! Eckért himintúngl gengur fljótara til austnrs enn túnglid á móti sólarinnar upprunа; setum nú øll vor fótspor hugrenninganna, verkanna og ordanna á veg fyrir Réttlætis sólina Jesúm Christum, á eptirkomandi vetrar tíma, og byrjum þann gáng strax í øndvegi vetrarins, svo hann verdi alltid á vegi fyrir oss, oss til hjálpar og hamíngju, hvad sem oss áliggur; Hann er vegurinn, sannleikurinn og lifid, Jóh. 14, 6; bidjum hann ad greida vorar fætur fram á veg fridarins; verum hradfættir á vegi dygdanna og mannkostanna; setum fúsir og viljugir til þeirra stadanna, hvar Guds ord er kénnt og prédikad, þá mun Jesús

upprenna oss sem ein blessud nádarsól í sínu ordi, og vor dofin og ískøld hjørtu med sínum nádar-il og varma sinna huggunarfullu fyrirheita miskunsamlega þýda og verma, og upp af þeim draga heitann idrunar- og bænar-vøkva og varma. Túnglsins formyrkvan orsakast þaraf, ad þad gengur inni jardarinnar skugga, verdur svo jordin midt á milli þess og sólarinnar, hvarfyrir hún gétur ei á þad skinid; látum ei þad jardneska og forgengilega byrgia fyrir oss Jesú nádar-ljóma; þegar hjartad er fullt af girnd og lystíng til þess jardneska, þá er þad rétt formyrkvad, svo sú sál sér ei fegurd síns Lausnara; allrasízt skyldu vor hjørtu verda formyrkvud af girnd og lystíng til myrkranna verka, heldur sifeldlega vera upplýst med skýlausum idrunar-anda. Þegar túnglid gengur austur um, á bí vid sólina, þá beygir þad gáng sinn til jardarinnar, svosem þad vilji veita henni lotníngu um leid; verum alltíd litilátir fyrir augliti mannanna, en allraheltzt audmjúkir í augliti Guds, audmýkjum oss undir hans volduga hønd, svo hann upphefji oss á vitjunar-timanum; hvønær sem vér nálægjumst hann í hans húsi undir Guds orda heyrn í vorum bænum og andvørpunum, þá komum fram undireins med einn sundurknosadann anda og harmþrúngid hjarta. Þó túnglid sé í mesta máta upplýst, þá er þad þó alltíd hálf myrkt og dymmt; ætlumst ei til ad géfa Gudi hálft hjarta vort, en láta þad hálft vera yfirskyggt med svartri búksorg og áhyggju þessa forgengilega lifs, heldur elskum hann af øllu hjarta, allri øndu, øllu hugskoti,

Math. 22, 37. því ecki gétum vér undireins Gudi þjónad og Mammon, Math. 6, 24. Túnglid verkar miklar umbreytíngar bædi í vedrinu, sjónum og líka á jørdunni, og optast orsaka þær kulda og mýkindaleysi; en sólin þýdir þad allt og temprar med sinni verkan; vort tímanlega líf er aldrei stødugt, heldur hefir á sér sífelda veltu, og optast til andstreymis og baráttu; en Jesús, med sinum stødugu nádar-varma og krøptugri líknarverkan, mýkir og linar øll vor bágindi, og géfur freistíngum og mannraunum þann enda, ad vér fáum stadist, 1 Kor. 10, 13; hann lægir sjó og bylgjur mótlætínganna: hann þýdir kulda og hretvidri heimsins offsókna: hann hastar á storm freistínganna: hann sefar allt andstreymi med sinni hjálp og huggun. Drottinn sjálfur géfi nú, ad túnglsins verkanir allar stjórnist oss í hag og til blessunar á eptirkomandi vetri, bædi fyrir oss og vorar sképnur, svo vér verdum af øllum Guds handaverkum blessadir! Hann mýki og tempri alla óveduráttu, og vægi oss fyrir hagli og hridum, stórhardindum og landplágum, skruggum, eldingum og vatns- eda snjó-flódum; samt allri annari óárau! Hann veri lofadur og blessadur fyrir nádarsama stjórnan þessa himintúngls á umlidnu sumri, og fyrirgéfi oss óþacklæti vort og hyrduleysi í því ad taka á móti hans velgjørníngum, med skyldugri vidurkénningu hans miskunar og dásemda, sem hann hefir í því og øllu ødru oss gott gjørt, og láti oss ecki á eptirkomandi vetri gjalda vors stóra óþacklætis, med því, ad svipta oss þvilíkri sinni himneskri nádar-

stjórnau, heldur virdist ad framhalda þeirri sømu nád og gædsku eptir ríkdómi sinnar dýrdar í Drottni vorum Jesú Christó, hvørjum ad sé dýrd og vald ad eylífu, Amen!

## 3ia Hugleiding

af Myrkrinu.

Gángid þá stund þér hafid ljósid, svo myrkrid høndli ydur ecki; hvør sem gengur í myrkrunum, veit ecki hvørt hann gengur, Jóh. 12, 35.

Eg tilbý ljósid og skapa myrkrid, segir Gud fyrir Esaíæ spámanns munn, Es. 45, 7; sú er rádstøfun hins alvitra Guds, ad sá myrkvi vetur skal árlega fylgja á eptir því bjarta sumri. J vor heyrdist þar eitt gledihróp ámedal vor: Veturinn er umlidinn, en sumarid tekur ad nálgast, Lofkv. 2, 11. en nú er þad umbreytt í þessa sorgarkløgun: Sumarid er hjálidid, en hinn dymmi vetur er yfirkominn, sem færir med sér margann þann óhentugleika, er sumarid eckért af vissi, en þó sérdeilis myrkrid og dymmuna; þarfyrir, svo hættulegt sem þad er fyrir hinn heilskygna ad gánga í myrkrinu án ljóssins, og svo skadvænlegt sem þad er fyrir hinn blinda án leidsøguarmanns, því þar sem hinn vantar dagsljósid, þar vantar þennann augna ljósid, svo er þad bædi hættulegt og skadvænlegt fyrir oss ad inngánga þann myrkva vetur án ljóss og leidsøguar þess ords, sem er ljós á vorum vegum og lampi vorra fóta

Ps. 119, 105. Upplýsum því hinar fyrstu og dymmu vetrar nætur med þessu ljósi, svo munu allar adrar, ef vér því sama framhøldum, oss upplýstar verda af himneskum ljóma Guds nádarfullrar nálægdar, sérdeilis ef vér þá ei forsómum ad upplýsa þær med lestri Guds orda og bæninni, því hjá hønum eru ecki myrkurin myrkur, og nóttin má lýsa sem dagurinn, Ps. 139, 12. og hann er sjálfur þad ljós, í hvørjum engin myrkur eru, 1 Jóh. 1, 5; þá gétum vér sagt eins og Davíd sagdi: Þú, Drottinn! ert minn lampi, Drottinn mun upplýsa mín myrkur, 2 Sam. 22, 29. Þá Israels fólk var á ferd í eydimørkinni, þá upplýsti Drottinn þess næturmyrkur med eldstólpanum, 2 Mós. 13, 21; hann upplýsi og á þessum vetri bædi þessa nótt og allar adrar med sinni vernd og nádar nálægd, svo munum vér ei þurfa ad óttast fyrir þeirri drepsóttinni, sem í myrkrunum lædist, Ps. 91, 5. Margir hrædast myrkurin, einsog þeim sé í þeim meiri háski búinn enn í birtunni; en þar eru tvenuslags myrkur, á hvørjum menn skulu helzt taka vara, ad þau skadi þá ecki.

Hin fyrstu eru syndanna myrkur; því hrædast menn þau ecki? í þeim búa þó þær vofur, sem mest er ad óttast fyrir og orsaka eylífann sálarskada. En þetta gengur svo andsælis, ad menn óttast fyrir þeim myrkrum, sem ecki færa meira íllt med sér, enn birtan; þviad svosem þar er til sú drepsótt, sem í myrkrunum lædist, svo er þar og til sú drepsótt, sem um middegid fordjarfar; en þau hin sømu myrkur, sem þá mest skada og leida eptir sig eylífa drepsótt

bædi sálar og líkama í þeim eylífu og ytstu myrkrunum, Math. 25, 30. þau hin sömu, segi eg, elska menn meir enn ljósid, Joh. 3, 19. og hafa svo samfélag vid ófrjófsöm verk myrkranna, Eph. 5, 11. Nú ef vér viljum ad þessi nýkomni vetur verdi ofs blessadur og farsæll, þá idrumst þeirra myrkranna verka, sem vér gjördum á umlidnu sumri, ad ei komi yfir ofs í vetur þad Davíd spáir þeim ógudlegu, segjandi: þeirra vegur mun verda harla myrkur og sleipur; og Jób (12, 25) segir: ad Gud láti þá fálma svosem í myrkri, þad er: þeir ana rádlauslega fram, því hann sleppir af þeim sinni verndar-hendi. Guds englar eru englar ljósins, útsendir þeim til þénustu, er sáluhjálpina erfa skulu, Ebr. 1, 14; en hreinir þeir flýa synd, ef sjá, svosem býflugur reiknum frá; þeir sleppa sinni vöktun af þeim, sem segja hid vonda gott, og hid góda vondt, sem gjöra myrkrid ad ljósi, og ljósid ad myrkri; en ef Gud tekur frá ofs sína vernd og vöktun sinna heil. engla, hvörsu bjart mun þá verda í kringum ofs? mun ecki hann, sem er myrkra stjórnari þessaheims, Eph. 6, 12. sæta því tækifæri, og kappkosta ad koma ofs í þau ytstu myrkur. Þess vísa augu eru í hans höfdi, segir Salómon, Préd. 2, 14. en dárinn gengur í myrkrinu, þad er, blindt áfram í andvaraleysinu og myrkrum syndanna og blindni holdsins; einsetjum ofs því ad láta vor verk og allar athafnir á þessum vetri vera í Gudi gjördar, Joh. 3, 21. Eg em ljós heimsins, segir Jesús, hvör hann fylgir mér eptir, hann skal ei gánga í myrk-

runnum, heldur skal hann hafa ljós lífsins, Jóh. 8, 12; en hvörnig er hann ljós heimsins? auk þess að hann með ljósi sínu blessudu orda upplýsti alla menn, sem koma í þenna heim, hefir hann lýst oss með sínu blessada og heilaga líferni, ecki einasta að votta þarmeð sitt syndlausa líferni (þar enginn kunni að straffa hann um nockra synd) edur með sínu hlýdni uppfylla vor vegna lögmálid, heldur er hann einnig ljós heimsins til þess, að hans líferni sé oss til eptirbreytíngar; þarfyrir segir Pétur, að hann sé settur oss til fyrirmyndar, að vér gaungum í hans fótspor, 1 Pét. 1, 21; því sagdi Frelsarinn við lærisveinana, þá hann hafdi þvegid þeirra fætur: Eg hefi géfid ydur eptirdæmi, að eins sem eg gjördi ydur, svo skulud þér og gjöra, Jóh. 13, 15. Þess-vegna, ef vér setjum oss hans dæmi fyrir sjónir til eptirbreytíngar, þá erum vér þau réttu ljóssins börn og dagsins synir, 1 Thess. 5, 5. þá gaungum vér ecki i myrkrunum, gjörum og eigi myrkranna verk, heldur frelsumst frá verdlaunum myrkranna. Skeytum því ecki, þó oss sýnist þeir ógudlegu komast vel af með sitt myrkra athæfi, því þessa heims tími er þeirra tími og makt myrkranna; hvad segir Esaias: vei þeim sem söckva sér djúpt frá Drottni, að hylja þeirra áform, og hvörra verk eru myrkranna verk, og segja: hvör sér oss? hvör þeckir oss? Es. 29, 15; heldur tökum vara á sjálfum oss, að ei gaungum vér í þeirra fótspor; látum vort ljós lýsa fyrir mönnum, svo að þeir sjái vor gódverk og dýrki vorn Gud, sem er á himnum, Math. 5, 16;

þá munu ljósins englar vera hjá oss og vardveita oss frá myrkranna høfdíngja þessa heims, og øllum hans slægdar- og véla-myrkrum; svo munu vor vetrar myrkur verda af þeirra dýrdlegri nálægd og himneskum ljóma upplýst.

Hvør sem nú þessa gætir, hann þarf ei ad kvída fyrir hinum ødrum myrkrunum, sem áskyggja opt Guds børn í þessum heimi, sem eru Hørmúnganna myrkur; á þeim skulum vér einnig taka vara, svo ad ei gjørum vér Krists kross ad ræníngjans krossi. Gud veit hvad uppá kann ad falla fyrir oss á eptirkomandi vetri; skéd gétur ad vér missum vora heilsu, og þá þykir mørgum áskyggja, þegar svo fellur. Falla má, ad vér annadhvørt reynum bágt á vorum ástvinum, hvad mørgum ecki fellur léttara, enn þó á þeim sjálfum lægi, þad á þeirra ástvinum liggur, edur kannské vér hljótum ad sjá á bak þeim og missa þeirra yndislega sambúd; þá er ecki stundum lengi þess ad bída, ad eldur, vatn, vindur edur ønnur voveifleg tilfelli granda vorum eignum eda sképnum, og hvør kann þad allt ad upptelja, sem ad vill ama, þegar vetrartími hørmúnganna yfirstendur? Verum þvi ei varbúnir! kannské eitthvad af þessu hitti oss. Hvør mun nú upplýsa þessi myrkur? hvada sól eda ljós mun þeim afvenda? Menn brúka ljós í húsum á þeim dymma vetrartíma; en hvad segir Gud fyrir Davíds munn: Þar mun upprenna ljósid fyrir þá frómu í myrkrunum, Ps. 112, 4; hvør myrkur meinar hann hér? hann meinar hørmúnganna myrkur; en hvada ljós

meinar hann? hann meinar ljós gudlegra huggana, þvi segir hann i ödrum stad, Ps. 97, 11: Þar er sád einu ljósi fyrir þann réttláta, þad er: hann er alltíd gladur í mótlætinu, af því sá gudhræddi og frómi huggar sig alltíd vid Guds miskunsemi. Svo er þad þá almáttugur gódur Gud, sem upplýsir hörmúnganna myrkur med nád og hjálp, og burtrýmir þeim med sínum huggunum. Þó líkaminn sé í Egyptalands myrkrum staddur, þá er sálin og hjartad í sífeldu Gósen-landi himneskrar huggunar birtu, fridar og fagnadar í heilögum Anda; þegar Guds huggun er nálæg, þvi hennar líf er fólgid med Christó i Gudi. Vér képpustum vid ad vera byrgir af ljósi undir veturinn, til ad upplýsa myrkrin med; sömum nú undir veturinn huggunar-ljósi Guds nádar lofana i vor hjörtu, ad upplýsa med þeim myrkur ángistarinnar, ef þau kunna ad koma yfir oss, svo ad ljós huggunarinnar yfirgnæfi hjá oss myrkur sorgarinnar, Prédik. 2, 13. og vort hrygdar myrkur verdi ad ljósi, Es. 42, 16; þetta befalar oss sjálfur Fadir ljósanna, er hann segir fyrir munn Esaiæ: Sá sem gengur í myrkrunum (þad er, i hörmúngunum) og ecki hefir ljósid (þad er, líkamlega huggun) hann skal vona á Drottinn (þad er, vænta hans hjálpar og adstodar) Es. 50, 10. Sömuleidis segir hann enn aptur, Es. 58, 10: Þitt ljós mun upprenna í myrkrinu, og þokan (mótlætínganna) mun vera sem middegid.

Hugsum eptir þessu, ef oss kunna ad mæta nockrar mannraunir á þessum vetri, gætum ad, hvör

þad er, sem leggur þær á oss, þad er sjálfur Gud; Drottinn deydir og lífgar, 1 Sam. 2, 6. Drottinn gaf, Drottinn burttók, sagdi Jób, þegar þó sjálfur Djøfullinn hafdi gjørt honum skada og skapraun; en Jób vissi þad gat ei skéd nema fyrir Guds tillátsemi, og þarvid huggadi hann sig. Guds álag er ecki sverd dómarans, heldur hrís fodursins: Þvi hvørn þann son, sem fadirinn elskar, þann agar hann og typtar, Ebr. 12, 6. Gæt og ad sjálfum þér, hvílíkur þú ert, sem lídur, þú ert ecki myrkranna barn fyrir þad, þó þú sért í myrkrum sorganna staddur, heldur ertu bródir Krists, Ebr. 2, 11. sonur og barn Guds, Jóh. 1, 12. já, þú ert musteri H. Anda, 1 Kor. 3. 16. þú ert ecki kastadur fyrir fætur djøflanna, þó þér sé kastad í mara vatn mótlætinganna, heldur ertu útbrynjadur med herlidi engla Drottins, Ps. 34, 8. Guds hønd gétur umbreytt þínum sorgar myrkrum í ljós gledinnar, þegar hann vill, hann gjørir þad og svo þegar hans tími er kominn, og þér gégnir bezt; og þó þér kunni ad sýnast sem hans huggunar-ljós sé aldeilis fyrir þér útslockid, þá vert viss um, ad vegna sinnar eldheitu elsku til þinnar velferdar typtar hann þig og agar, svo þú skulir aldrei tapast ad éylífu, því nær vér dæmumst, þá verdum vér af Gudi typtadir, segir postulinn Páll, uppá þad vér fordæmumst ecki med heiminum, heldur uppá þad, ad vér, ad hørmúnganna myrkrum afstødnum, ødlumst fridsamleganu ávørt réttlætisins, Ebr. 12, 11. Þú munt heldur ecki verda einn á ferd í þeim svarta sorganna Kedrons dal, allir Guds

ástvinir eru þér samferda, hvørra vegabréf þar í gégnum þannig hljódar, Post. g. 14, 22: Fyrir margar hrellíngar hljótum vér inn ad gánga í Guds riki; já, sjálfur stridsforínginn vor Jesús Kristur hlaut þetta ad lída og inngánga svo í sína dýrd, Lúc. 24, 26; og ef hann hlaut lída fyrir adra, því þá ei þú fyrir sjálfann þig? Hvørnig gétur þar dymmt verid, sem sélin er á ferd? hvørnig gétur hann verid nema med gladværri samvizku, sem veit ad Réttlætis-sélin Jesús er í før med hønum; þó hann gángi í myrkvum dal og daudans skugga, hrædist hann enga ólucku, Ps. 23, 4; nú er þad víst, hann skilur aldrei vid þá, sem bera hans kross þolinmódlega, hvørsu þúngur, hvørsu sár sem þeim finnst hann ad vera, því hér eru hans fyrirheit vid høndina, sem aldrei bregdast ad eylífu; hann segir hjá Esaiam, 43, 1—2: Ottastu ecki, eg hefi þig endurleyst, nær þú gengur í gégnum vøtnin, þá vil eg vera hjá þér, svoad straumarnir skulu ecki dreckja þér; sømuleidis fyrir Davids munn, Ps. 91, 15: Eg vil vera hjá hønum í neydinni, hønum þadan útryckja og hann vegsamligann gjøra. Þessum og ødrum þvílíkum heil. ritníngar huggunar ljósum eigum vér ad safna á hinum fyrstu vetrar døgunum. Guds eldur og lamparnir máttu aldrei slockna í musterinu; látum þessi ljós himneskra huggunar-elda H. Anda ætíd loga í vorum hjørtum, svo þau upplýsi sorgar myrkrín vor, þá þau koma yfir oss. Í myrkrinu hvílast menn og sofa; í hørmúngunum hvílast menn af syndanna idju, því hvør hann

lídur á holdinu, sá lætur af ad syndga, segir Pétur, 1 Pét. 4, 1; þegar myrkrunum linnir, þá kémur ljós og birta á eptir; einsog skinid kémur eptir skúrina, einsog sumarid kémur eptir þenna vetur, eins géfur Gud, ad afstödnum öllum vetrar hörkum vorra mótlætinga, oss eitt gledilegt og hlýindafullt fagnadarsumar í himninum. Svo er þá mótlæting þessara tíma ecki verd vid þá dýrd, sem sídar mun fram vid oss koma, Róm. 8, 18. Hann géfi oss ad berjast gódri baráttu, behalda trúnni og gódri samvizku allt til enda, 2 Tim. 4, 7! Hann vardveiti oss frá voudum myrkranna verkum, og styrki oss med nád sins Anda til ad íklædast herklædum ljóssins! Hann upplýsi myrkur vorra hörmúnga med ljósi sins hjálprædis og huggana! Hann géfi ad vér, ad afstödnum daudans myrkrum, ödlustum eylíft fagnadar- og lífsins-ljós í himninum! Hönum sé lof og dýrd frá eylífd til eylífdar, Amen!

## 4da Hugleiding

af Nóttunni

Eg leitadi Drottins á minnar neydar degi, mín hönd var um nóttina útrétt, og lét ecki af; mín sál vildi ecki láta sér hugsvala, Ps. 77, 3.

Vel og visdómslega hefir hin guddómlega speki því nidurskickad sem öllu ödru, ad svosem hún gaf oss þann bjarta dag til vors erfidis og útréttinga, svo gaf hann og einnig þá dymmu nótt til hvildar

og hreſsingar. David ſegir, ad villudýrin hreiſt ſér helzt á nóttunni, Pſ. 104, 20. ecki gjøra þad, nema hin grádugu villudýr ágirndarinnar, ad brúka og láta brúka til erfidis og ónædis iduglega þann part næturinnar, ſem til ſvefnſins þarf, hvørra miſkun ad er ſem þeſs grimma, ſegir Salómon, Ordskv. 12, 10. og áſælaſt ſína þénara med ofríki og gleyma Drottni, Ezech. 22, 12; Flá þeirra húd af þeim, og þeirra hold af þeirra beinum, Mich. 3, 2. þeir géfa ſér ſjálfum ecki ró, hvad þá ødrum. Davíds hønd er líka ókyrr og útrétt alla nóttina, en til hvørs? ecki til ad hremma forgengilegt góts og maura, heldur audlegt og óforgengilegt; já, til ad bidja og andvarpa til Guds, til ad gráta ſínar ſyndir og misgjørdir: Hans grátur er hans fæda dag og nótt, Pſ. 42, 4. Anna þjónadi dag og nótt; en hvørjum? Gudi; med hvada ſtarfi? med føſtum og bænahaldi, Lúc. 2, 37. Vel ſé þeim ſem vætir um allar nætur ſitt legurúm í tárum einsog Davíd. Þó ecki ſéu dúrarnir hins ángrada manns allir lángir, þá eru þeir yndislegir og hollir, þegar hann á milli þeirra er ýmiſt ad ákalla Gud edur ad lofa Gud. Þád er fávizka ſumra manna edur kannſké edli þeirra, ad þeir hrædaſt eitthvad í myrkrinu, er þeir ecki hrædaſt í birtunni; en ecki veit eg hvad þá er fremur ad óttaſt, því eins eru hreckir og vigvél hins vidurſtyggilega fúla anda oſs óſýnileg á daginn ſem á næturnar. En ſá einaſti má vera bædi myrkfælinn og ljósfælinn, ſem veit ſig ad vera í reidi Guds og óforlíktann vid hann, hvørs ſam-

vizka lætur hann hvørki súpa sætann né sofa værann, Ordskv. 28; svo lengi sem samvizku ormurinn og eldurinn lifir, Es. 66, 24. sefur ecki sá ógudlegi med værd. En viltu, vinur Guds! læra, hvørnig þú skalt svo um þig búa, bædi á þessu kvøldi og ødrum, ad þú þurfir fyrir engum háska, engum illum anda ad óttast, hvørki vegna þín né þinna, heldur hvílast og sofa med værd undir vængja skjóli hins lifanda Guds, Ps. 91, 1. Því hann mun ecki sisja, og ei sofa sem vardveitir Israel, Ps. 121, 4; þá skaltu á hvørju kvøldi enda daginn og byrja nóttina med heil. hugleidíngum; til dæmis: í því dagurinn endast og nóttin byrjast, skaltu hugleida, ad sá næstlidni dagur sé einn sá tími, af hvørs brúkun þú verdur reikníng ad standa á sídasta degi, á hvørjum allir munu ødlast eptir því sem þeir hafa adhafst í líkamans lífi, hvørt þad er illt eda gott, 2 Kor. 5, 10; bid svo med fáum en þó kroptugum ordum, hvad sem þú ert ad starfa, Gud fyrirgéfningar bædi á því sem þú hefir forsómad gott, og gjørt vondt á þeim degi, og lofa hann fyrir sína nád og þolinmædi yfir þér; en hafir þú gjørt nockud sem þú vissir Gudi til þægdar, þá þacka hønum fyrir þad, ad hann verkadi þad med þér, og undireins fyrir hans vernd og velgjørdir; þetta gétur þú gjørt og hugsad, þó ecki endi þitt erfidi med deginum. Hér-adauki skaltu befala strax undir nóttina allt þad þér vidkémur, bædi sál og líkama, menn og sképnur, hús og heimili undir vernd og varatekt almáttugs Guds og hans h. engla; þetta skaltu gjøra, hvørt sem þú

ert nálægur eda fjarlægur þínu heimili, hvørt sem þú ert yfirbodinn eda undirgefinn. Þegar lídur ad þinni hvíldarstund, skaltu aldrei láta undanlida ad lesa edur láta lesa opinberlega Guds ord í þínu húsi, á øllum þeim kvøldum, sem því verdur svo vidkomid, ad allir í húsinu géti med andagt eptir því tekid, edur velflestir, svo þú þarmed lockir inni hús þitt þann sem sagt hefir, Math. 18, 19: Hvar sem tveir eda þrír eru samankomnir í minu nafni, þar vil eg vera midt á medal þeirra. Med þessu móti fyllir sjálfur Gud bædi þitt hjartans og heimilis hús, med sinni nádar nálægd og fylkingum h. engla, svo ad djøfullinn og hans andar fá þar eckért pláts edur rúm ad leynast í, þér edur því til skada og ólucku; andvarpa svo jafn framt í hjartanu med þeim tveimur, sem til Emaus gengu: Vertu hjá oss, Herra! Þviad kvølda tekur og á daginn lidur, Lúc. 24, 29. Þegar nú sá tími kémur ad þú vilt leggja þinn líkama til hvíldar, minnstu þá altíd, og lát þad ei gleymast, á þitt sídasta æfikvøld, á þína grøf, á þinn sídasta daudasvefn, sem þú ei veizt nema verdi sá hinn sami, hvørjum þú vilt þá sofna; hvarfyrir þér mun þykja rád, en ecki órád, ad lesa altíd eina stutta andlátsbæn edur andlátsvers á hvørju kvøldi, svoad sálin sé í hendi Drottins, Spek. 3, 1. hvad sem uppá kann ad koma, því þú veizt ecki hvørt þér muni audnast af þeim svefni aptur ad vakna. Varastu ad hafa nockurt óskickanlegt, ótilheyrilegt tal í sæng þinni, enn sídur ógudlegt; kannské þér audnist ecki optar ad tala, og er þad ecki

góds viti að hafa lagst útaf að kvøldi með illann munnsøfnuð, en liggja kannské dauður að morgni. Að síðustu þá þú hneigir þitt høfuð að þínu hægindi til svefns, þá upplypti sér þín sál og hjarta með hinum lifkrøptugustu andvørpunum, um allar lífs og sálar naudsynjar bæði þínar og þinna, þá skal fyrir alvøru þinn andi hitna í bæninni; leitastu við að vera fáorður, en þó gagnorður; vittu fyrir víst, að Guðs englar eru þá við høndina að taka ámóti þínum bænum, og bera þær í himinin; já, sjálfur Jesús leggur þá við sitt miskunar-eyra, og biður jafnframt með þér og fyrir þér; bið þú hann að vera undir þínu høfði einsog andlegann Jacobs svefnstein, 1 Mós. 28, 18; bið hann að láta sína vinstri hønd vera undir þínu høfði, en hans hægri hønd að umfaðma þig, Lofkv. 2, 6; bið að sálin þín fái að hvílast í þeim yndislega verndar- og miskunar-faðmi síns Lausnara. Komi að þér svefnþýngsli, þá bið með sem færstum orðum og mestu gætni; vara þig að ei verði þér mismæli, bið þá Guðs Son að taka við að biðja, þar þú gétur ei lengur beðið; hafðu heldur heilaga þánka, heil. hugleiðingar; vertu að íminda þér gæðsku Drottins við þig á deginum framkomna; ímindaðu þér sælu himnaríkis, kvøl og pínu Jesú Krists, og hans eldheita elsku til þín, þartil sjálfur Guð svæfir þig í sínu verndar skauti, allteins og móðir sitt brjóstbarn. Þá þú vaknar á næturnar, svo vakni þín lofgjørð til Guðs, sem þá vakir yfir þér; vakni þín andvarpan til hans, að hann víki ei frá þér né hans englar;

svo hvørt þú vakir eda sefur, þá sértu Drottins. Ef þig dreymir, ad þú þykist gjøra edur tala þad sem er syndsamlegt edur saurugt, svo bid Gud strax sem þú vaknar ad fyrirgéfa þér þad, þó ecki gætir þú ad því gjørt, þá var þad samt synd; bid hann og ad vardveita þig frá ad módga hann bædi í svefni og vøku. Ef þú hlýdir þessu, þá máttu fyrir víst vita, ad Gud býr í þínu hjarta, og þú fær þad strax sem Jacob féck, er hann svaf um nóttina í Bethel, 1 Mós. 28, 15. þá Gud sagdi vid hann: Eg vil vera hjá þér og blessa þig; hann mun þá upplýsa med sinni nálægd sérhvørja þína nótt, einsog hann upplýsti nóttina fyrir Israels fólki, þá þad var offókt af Pharao, 2 Mós. 14, 20. Ef þú bidur og hugsar til Drottins alla nóttina, einsog Samúel, þá mun hann vekja þig í hæfilegann tíma; og sér þú þad sjálfur, hvad yndislegt, gott og sáluhjálplegt þad er, ad vera þannig bædi svæfdur og vaktur af sjálfum Gudi; þú mátt þá segja einsog brúdurin í Ljóðkvædinu, 5, 2: Eg svaf, en mitt hjarta vakti, edur sem David, Ps. 3, 6: Eg lagdi mig og svaf, eg uppvaknadi, því Drottinn vidheldur mér. Ef þú, barnid Guds, vakir og sefur hvørja nótt med þvílíkum þankum og andvørpunum, þá þarftu ecki ad kvída þeirri drepsóttinni, sem í myrkrunum lædist; eg vil tala þá til þín med ordum Salomónis, Ordskv. 3, 24: Leggir þú þig, þá muntu ecki óttast, þú munt hvílast og þinn svefn mun sætur. Gud himneskur blessi og farsæli oss bædi þessa nótt og

allar adrar á þessum vetri, svo þær verdi oss rósamar til hvíldar og endurnæringar!

Eg sagdi fyrir skömmu, ad menn skyldu á hvörju kvöldi minnast á sinn sídasta daudasvefn, þvíad sá náttúrlegi er af þeim gömlu kalladur bródir daudans, hvad ecki er illa tilfundid, því þad er ærid margt líkt med þeim. Gjörum svo nú, minnumst á hann, vér ætlum innanskams ad géfa oss til svefns, géfum oss fyrr til daudans umþenkingar. Megi eg kalla svefninn bródur daudans, þá má eg segja, ad margt sé líkt med skyldum; líkir eru þeir ad upprunanum: svefninn orsakast af þessa þeim, er stígur upp af fædunni; daudinn orsakast af óleyfilegri nautn vorra fyrstu foreldra: A hvörjum þeim degi, sem þú etur af þessu tré, skaltu dauda deya, sagdi Gud vid Adam, 1 Mós. 3, 3; því segir og Páll, Róm. 5, 12: Líka sem fyrir einn mann er syndin innkomin í heiminn, og fyrir syndina daudinn, svo hefir daudinn til allra manna igégnumþrengt sér, í því allir syndgudu. Þá madur sefur, fær hann aptur vidrétting þeirra krapta, sem hrörnudu í erfidinu, og verdur því hæfilegri og friskari til erfidisins aptur uppvaknadur; eins skédur þad í daudanum: allir vorir kraptar vidréttast aptur, þá sú blessada Réttlætis-sól Jesús upprennur oss í upprisunni; Þad verdur sád forgengilegur líkami, segir Páll, en upprís aptur óforgengilegur, 1 Kor. 15, 42. Þá madur sefur, hvílist hann af sínu erfidi; eins segir Andi Guds, Opinb. 14, 13. ad þeir gudyrædu gjöri í daudanum: þeir gánga þá inní sitt svefnhús, gröf-

ina, og láta aptur dyrnar eptir sér, Es. 26, 20; þeir hvílast í Abrahams fadmi, Lúc. 16, 22. í Jesu Christi dýrdar fadmi. O, hvørsu mikil umskipti mun þeirri stridandi brúdur Christi þykja þá ordin, eptir margfalda mædu þessa heims, þegar hún badar med eylífri unun í fridarfadmi síns brúdguma. Þó líkaminn sofi, þá vakir þó samt sálin og hefir sínar vissar verkanir; eins þó líkaminn deyi, þá lifir sálin þess gudhrædda í hendi Drottins, hvar engin pína snertir hana; þá er úti ótti fyrir daudanum, þegar hid eylífa líf hefir vidtekid. Þá madur sefur, skeytir hann ei um hvad adrir hafast ad í kríngum hann, þó þeir leiki, hefir hann þar enga skémtun af, og þó þeir gráti, hryggir hann þad alls ecki; eins er sá burtsofnadi, hann er kominn til fullkomins yndis í himninum, øll tárin eru þá þurkud af hans augum, gledi og føgnud hefir hann høndlad, en hrygd og sorg er burtvikin frá hønum; eylífur føgnudur er yfir hans høfdi, og þessvegna skeytir hann eckert um fallvalta veru edur ástand þessa heims, Es. 63, 16. því Abraham veit ecki af oss og Israel þeckir oss ecki. Opt kémur svefninn óvart ad, og enginn gétur sagt fyrir víst á hvørri mínútu hann muni helzt sofna; eins kémur daudinn ad óforvarandis, og enginn veit á hvørri stundu hans er helzt von. Sá sem sefur, hønum þykir svefninn sætur, hann fríast frá margskyns mædu og andstreymi, sem þeir, ed vaka, verda ad þola, því segir Salómon, Préd. 5, 11: Hvøred erfidar, hønum finnst svefninn sætur. Hvør sem vill gæta þess, hvad margslags hørmúngar vér hljótum

hér ad líða, hvað sárar og þúngar armæðustundir, hann mun andvarpa með Páli, Phil. 1, 23: Eg girnist að skilja hér við og verá með Christo; og með Símeon: Nu láttu þjón þinn í friði fara. En Guð friðarins gefi øllum þeim, sem á þessum vetri sofna dauðans svefni, að þeir sofni sætum og sáluhjálplegum hvíldarsvefni, svo vér allir, að hørmúnganna nóttu og dauðans svefni útendudum, mættum ødlast eylífann dýrðardag í himneskum friði og føgnuði, Amen!

# 5ta Hugleiðing

## af Kuldanum.

Með því ránglætið er orðið margfaldt, mun kólna kærleikur margra, Math. 24, 12.

Af Guðs anda kémur frostið, segir Jób, Kap. 37, 10. Að sønnu er það ráðstøfun og vísdómsfull niðurskipan hins lifanda Guðs, svo lengi jørðin varir skuli ei þrjóta frost og hita, 1 Mós. 8, 22; en samt er það þó mannkynsins syndastraff, að sá kaldi vetur orsakar ecki að eins svo mikla vísnan allra eður velflestra ávarta jarðarinnar, heldur og einnig mørg ønnur bágindi og armæðu mønnum og sképnum, bæði til lands og sjáfar, sérdeilis í þessum álfum heimsins, fyrir hvørjum óhægindum, að þeir, í þeim heitu løndunum, eru að sønnu fríir; en eg hygg, að þeirra hiti gjøri þeim ei minna mein, enn oss vor kuldi, svoað um allann heiminn hefir syndin

orsakad mannskėpnunni eitthvad illt, jafnvel í ríki náttúrunnar. En Gudi sén þackir ad eylífu, sem gėfur oss árlega húsa- og fata-skjól til ad útilykja frá oss kuldans meinsemdum! Hann virdist og af sinni einskærri miskun og medaumkan, ad vægja oss og vorum skėpnum fyrir ofmiklum kuldum og frostum á þessum vetri, svoad himininn verdi ei yfir oss sem járn, edur jørdin undir vorum fótum sem kopar, 3 Mós. 26, 19. vegna vorra synda og óþacklætis! Marga hita og hlýindastund hefir gædska Guds látid yfir oss koma á þessu sumri, en hvada þackir hefir hann þarfyrir af oss fengid? Svosem hitinn og varminn lífgadi í sumar allar skėpnur og ávexti jardarinnar oss til blessunar og notkunar, svo er þad maklegt, vegna vorra synda og óþacklætis, þó Gud útdreifi yfir oss í vetur hrímfrostinu sem salti, Sýr. 43, 22. edur þeyti sínum ís, svosem munnbitum, svo vėr ei stadist fáum fyrir hans frosti, Ps. 147, 17. En vægi oss Gud og veri oss líknsamur! hann straffi oss ecki í sinni reidi, og typti oss ecki í sinni brædi, Ps. 6, 1! Hann láti ei þær saklausu skėpnurnar gjalda vors ógudlegleika! Hann lėt þær í Niníve njóta þess ad innbyggjararnir gjørdu sanna idrun, Jón. 4, 10; gjørum idran vorra synda einsog þeir, og Gud mun vægja bædi oss og vorum skėpnum einsog hann vægdi þeim, þvi hann mun ei gánga á bak orda sinna, þeirra er hann taladi fyrir Ezechielis munn, Kap. 28, 21: Þegar sá syndugi snýr sėr, þá skal þad ecki skada hann, þó hann hafi verid ógudlegur; og því segir Davíd, Ps. 130, 7—8:

Hjá Drottni er miſkunſemin, og nógleg endurlauſn, og hann mun frelſa Iſrael af øllum ſyndum. En vilji menn ecki bæta ſig, þá hefir hann hvatt ſitt ſverd, ſinn boga hefir hann utſpannad, og midar til, Pſ. 7, 13. En ſvo ſkadlegur ſem þeſsi útvortis kuldi er líkamanum, ſvo ſkadlegur og miklu ſkadlegri er innvortis kuldi hjartans ſálunni. Hvør vill furda ſig yfir því, þó vorir vetur ſén kaldir, þar vér erum ſjálfir kaldaſtir, í því ſem vér eigum ad vera heitaſtir, þad er í elſkunni til Guds og náúngans, í hvørju eg hygg veröldin fari ætid veſnandi. Fyrir allar ſínar velgjørdir girniſt Gud eckért annad af øſs enn elſkuna, því þar ſem kærleikurinn er í ſinu rétta ſtandi, þar fljóta útaf hønum allar dygdir ſjálfkrafa; en þar ſem hann er kaldur, þar eru øll dygdanna blómſtur viſin; þetta ſannar Páll, Róm. 13, 10. ſegjandi: ad kærleikurinn ſé løgmálſins uppfylling; ſømuleidis ſegir hann, 1 Tim. 1, 5: Summa bodordſins er kærleikurinn af hreinu hjarta. Allt þetta ſtyrkir vor Lauſnari, ſegjandi, Jóh. 14, 21: Hvør hann hefir min bodord og heldur þau, hann er ſá ſem mig elſkar. Þarfyrir, viljir þú nú, barnid Guds! leggja Gudi vel í þock þær velgjørdir, er hann veitti þér á umlidnu ſumri, þá elſkadu hann af øllu hjarta, ecki af hálfu hjarta, ecki heiminn og Gud med ſama hjarta. Þóad nú þeſsi vetur kunni ad verda kaldur framar ødrum, þá lát þína elſku til Guds aldrei kólna, Gud er ſá ædſti gódi; eda hvadan hefir þú þá bleſsan, ſem nú er í þinu húſi? Hvør gaf þér allt þad hid góda, ſem þú hefir ødlaſt á

þessu sumri, og ecki einasta þá, heldur alla lífdaga þína? Þú svarar: það gjørði Guð; Þú svarar rétt; elskaðu hann þá framyfir allt, þar øll góð gjøf og øll fullkomin gjøf kémur að ofan frá hønum, Jac. 1, 17; hafðu aldeilis fest hjartað þitt við hann, og það ecki vegna þíns eginn ábata, heldur vegna þess hann er svo hjartanlega góður í sjálfum sér: Þú skalt láta hann vera þitt hjartans traust og hlutskipti, Ps. 73, 26. Elskaðu hann, því hann hefir elskað þig fyrri, 1 Jóh. 4, 19. Þú segir: eg vil gjarnan elska Guð; en eg spyr: er það þin alvara? eru það ecki læti ein fyrir þér? þér er kannské vel við hann, meðan hann lætur þér allt að óskum gánga; en elskar þú hann helzt, ef hann typtar eður agar þig? elskar þú hann meira fyrir hið andlega enn hið líkamlega? Heyr þú þarfyrir þau óbrigðanlegu kénniteikn eins sannarlegs Guðs elskara, og athuga grandvarlega, og fyrir utan ofmikla sjálfsélsku, hvørt þú finnur þau hjá þér svo ásigkomin, sem hér segir: 1) Ef þú hefir alla þína unun og hugarins fullnægju í Guði og hans orði: Þar er allur sem unir, sama segir Jesús hjá Math. 6, 21: Hvar yðar féssjóður er, þar er yðar hjarta. Hafir þú yndi af að tala um hann, og heyra um hann talað; þarum kémst sjálfur Jesús svo að orði, hjá Jóh. 14, 15: Hvør hann elskar mig, sá mun varðveita mín orð; einninn segir Jóhannes, 1 Jóh. 2, 5: Hvør hann varðveitir hans orð, sannarlega er Guðs kærleiki í hønum fullkomlegur. En hafir þú leiða á að heyra hans orð, ert tregur til að tala við hann í þínum

bœnum, þolir illa gudlegar áminníngar, sannarlega er þinn kærleiki til hans dádlaus og ískaldur. 2) Annad audkénni er, ef þú af hjarta hatar syndina og ógudlegt athæfi, ecki einasta eina synd, heldur allar syndir: Þar er eckért Gudi svo mótstædilegt sem syndin, Ps. 5, 5: Þú hatar ógudlegt athæfi, segir Davíd. Margir segja med munninum: eg elska Gud, en hjartad og liferníd segir allt annad. Þú varast ad styggja þann, sem þú elskar af hjarta, svo mundir þú Gudi gjøra, ef þú elskadir hann af hjarta; ef þú hatar þad, sem Gud hatar, en elskar þad, sem hann elskar, þá ertu ókaldur Guds elskari. 3) Þridja audkénni er, ef þú sýnir þína hlýdni vid Gud, med því móti, ad þú képpist eptir ad fá ad vita hvad Gud heimti af þér, og med alvarlegri ástundan kappkostar, ad þú gétir ordid honum í øllu hvad þægilegastur, ert svo strax reidubúinn ad framfylgja því, sem þú veizt ad Gud vill ad þú gjørir. Þegar Gud sér ad þú þessvegna vilt stunda hans ord, ad þú girnist ad gjøra eptir því, þá géfur hann þér bædi nád til ad skilja þad, og líka krapta til ad laga eptir því þitt liferni. Svo er þá einn sannur Guds elskari ecki einasta ordsins heyrari, heldur og einnin gjørari, Jac. 1, 22. Ecki gagnar fædan, ef henni er kastad upp aptur; Guds ord skal geymast í þínu hjarta; svoad kraptur þeirrar andlegu fædu sjáist í útlimum þinna hræsnislausu gódverka. Þad er ei nóg ad vita mikid í Guds ordi, þad fordæmir meir enn frelsar, ef menn ecki hlýda því þad býdur; hvad segir Jesús hjá Jóh. 13, 17: Ef þér vitid

þetta, þá erud þér sælir, ef þér gjørid þad? sømuleidis, Lúc. 6, 46: því kallid þér mig, Herra, Herra! en gjørid þó eigi þad sem eg býd ydur. 4da kénnileikn er, ef þú med þolinmædi og án møglunar þolir og umber þad, sem á móti blæs, og reiknar þad fyrir allann føgnud, þó þú í adskiljanlegar freistíngar fallir, Jac. 1, 2; svo nær þú hugsar ad eckért komi yfir þig nema fyrir tilhlutun eda tillátsemi þess miskunsama góda Fødurs, ef þú af einlægri hjartans elsku til Guds segir einsog David, Ps. 116, 13: Hann heilsusamlega kaleik vil eg afdrecka og nafnid Drottins míns vegsama, þá hefir þú ókaldann kærleika til Guds. Vetrartíminn er þvílíkur tími, á hvørjum margt amar þad ad manni, sem hinir tímarnir eru frír fyrir, svosem kann ad vera skortur bædi á lífsbjørg manna og sképna, kuldi og snjóar af loptinu, og annad þvílíkt; þetta kémur allt frá Drottni, hann er sá sem deydir og lífgar, 1 Sam. 2, 6. Møgladu ámóti syndinni, sem þetta orsakar, en ecki ámóti Gudi, sem þig hirtir af einskærri elsku, því hann sem Drottinn elskar, hann agar hann, Ebr. 12, 6. og gjørir þetta allt þér til góda. Ef einhvør kæmi til þín og segdi, ad allir steinar í þínu húsi skyldu verda ad gulli, þá mundir þú verda allshugar feginn, ef þú vissir ad þad kynni ad ské; en Gud kémur til þín, þá mótlætid kémur, hvørju nafni sem þad heitir, og segist vilja umbreyta þínu andstreymi í eylífann føgnud og unadsemd; Þeir sem í tárunum nidursá, munu med føgnudi uppskéra segir David; sømuleidis segir Páll, Róm. 8, 18. ad

mótlætingar þessára tíma sé ecki verd þeirrar dýrdar, er sídar mun fram vid oss koma. Þad kémur aldrei svo hardur vetur yfir oss, ad vér ei forþénad höfum hann hardari, og hvörnig mundi vidra, ef Gud vildi stjórna höfudsképnunum eptir vorri forþénustu? Þá mundum vér aldrei sjá blídann dag; segdu því med Davíd, þegar þér þykir ecki allt ad óskum gánga: Eg vil þegja og ecki mínum munni uppljúka, af því þú gjördir þad. 5ta audkenni er þad, ef þú Guds vegna, en ecki fyrir þinnar æru skuld, gjörir gott og hjálpar þeim, sem naudstaddir og þurftugir eru, því þá gjörir þú Gudi mjög þægt verk; Brjót þú húngrudum þitt braud, og innleid þá sem voladir eru í þitt hús, segir hann, Es. 58, 7. Annist naudþurftir heilagra, segir Páll, Róm. 12, 13. þad er, trúadra. Med þessari dygd sýnir þú þig ecki einasta sannann Guds elskara, heldur verdur þú Gudi líkur. Hann upplýkur daglega sinni hendi; géfdu þad, sem þú átt ecki, en þú átt ecki neitt af því þú undir höndum hefir, Gud á þad allt; fádu honum þad af því aptur, sem hann vill géfist fátækum, hann tekur þá svo vel ámóti því, svosem þú gæfir þad af þinu, en ecki af hans; undir þetta skrifar Salomon, Ordskv. 19, 17: Hvör fátækum miskunar, hann lánar Drottni; og Jesús segir, Math. 10, 40: Hvör hann medtekur ydur, sá medtekur mig. Láttu svosem þú sjáir ecki þann fátæka, hvörjum þú géfur, heldur sjálfann Jesú. Hugsadu þá þú réttir ad þeim snauda: þetta fæ eg þér, minn Herra Jesú! Géfdu þá þú gétur þeim sem þad lengst man og launar

bezt, en þad er Guð almáttugur. Ölmusur Kornelii voru uppstignar til minnis fyrir Gudi, Post. g. 10, 4. Guds Sonur hefir gjört ráð fyrir ad minnast þess á sídasta degi, Math. 25, 23; þá mun enginn þykjast hafa ofgéfid, þá þar er komid. Svo er þá min ályktun þessi, ad eptir því sem þin elska er køld eda heit til náúngans, eptir því er hún køld edur heit til þins Guds. Þeir fátæku, sem eru Guds voladir, eru undireins Guds vinir, en þú ert ecki réttur elskari, ef þú elskar ecki vin vinar þins; allt þetta sannar Jóhannes, 1 Jóh. 4, 20: Hvør sem segist elska Gud, en hatar (edur, ecki elskar) sinn bródur, sá er ljúgari. Ad sídustu er þad eitt hid vissasta kénniteikn til þess, ad þin elska til Guds sé ecki køld, ef þú hans vegna elskar þá, sem þér hafa gjört illa til: Elskid óvini ydar, segir Jesús. Þetta bodord er þúngt fyrir hid heiptræka hold og blód; en hvad tjáir um ad tala; Gud hefir skipad þad og Gud hefir sjálfur gjört þad, hann elskadi oss, og gaf oss sinn Son, þá vér vorum hans óvinir, Róm. 5, 6. Þú vilt heita bródir Krists, en hann beiddi fyrir sinum óvinum; láttu þá vera likt med skyldum. Kannské óvinur þinn sé sú svipa, med hvørri hann vill hirta þig og reyna; kystu á vøndinn einsog gódu børnin; hvad er frægilegra enn ad yfirvinna sjálfann sig? hvad er gódmannlegra edur gudrækilegra enn ad vilja ecki hefna á óvin sinum, en géta þad þó? hvør kann ad komast hærra í dygdunum, enn ad líkjast Gudi? Vér módgum hann dags daglega, hann blessar og miskunar

oss daglega. Sæll er sá sem þessa gætir og gjörir þareptir. O þú, óuppausanlegi kærleikans brunnur, Herra Jesú! verm þú vor elskulausu og ískøldu hjørtu med il og varma H. Anda, svo vér øllu framar elskum þig, og í þér Fødurinn, sem sjálfur er kærleikurinn, 1 Jóh. 4, 16. og þann H. Anda, sem er Andi elskunnar, 2 Tím. 1, 14. Géf oss, ad vér elskum hvør annann innbyrdis med falslausum kærleika, og leid oss ad sidustu, eptir þann kalda vetrartíma heimsins hørmúnga afstadinn, inní þad eylífa dýrdar-sumar, fyrir þíns nafns og elsku sakir, Amen!

## 6ta Hugleiding

### af Visnaninni.

Eitt gott tré gétur ecki fært vondann ávøxt, og eitt fúid tré gétur ecki borid gódann ávøxt; hvørt þad tré sem ecki ber gódann ávøxt skal upphøggvast og í eld kastast, Math. 7, 18. 19.

Þad er edli vetrarins ad hleypa visnan í trén og grosin og forrotnan í ávertina. Þad er edli syndarinnar ad hleypa spilling í líkamina og sálirnar og forrotnan í dygdirnar. Allir hlutir voru svo í øndverdu skapadir af Gudi, ad hann sjálfur sá ad þeir voru harla gódir, 1 Mós. 1, 31; þar voru mørg tré i Edens aldingardi, sem voru lystileg ad sjá, og gód til ad eta, og lífsins tré midt í aldingardinum, einninn skilníngs-tréd góds og ills, 1 Mós. 2, 17;

þó var manneskjan sjálf hin lystilegasta af øllum þessum, því hún bar dýrmæta áverti réttlætisins, heilagleikans, ódaudlegleikans, spekinnar og syndlausra tilhneiginga, því madurinn var skapadur eptir Guds mynd, 1 Mós. 1, 27. og var ad sinnislaginu Gudi líkur; en þessi blómgan vardi ecki lengi, því djøfullinn hleypti þeirri vissnan og forrotnan í alla þessa áverti, ad þeir urdu ad aungvu, svo madurinn vard ad taka fíkjublød ad láni til ad hylja sína blygdan med; svo vard hann uppvisnadur. O, þau skjótu og hryggilegu umskipti! og ei einasta visnadi hann og vard ávartarlaus, heldur uru á hønum aptur fúlir, vondir og eitradir ávertir ránglætisins, syndarinnar og daudans, sem upptaldir eru af sjálfum Jesú hjá Math. 15, 19. er hann segir: Af hjartanu framkoma vondar hugsanir, manndráp, hórdómur, frillulísi, þjófnadur, falskir vitnisburdir; sømuleidis af postulanum Páli, Gal. 5, 19. kallast þeir holdsins ávertir, hvørja hann einninn upptelur. Sídan gaf Adam af sér eins dygda-visin børn, og hann var sjálfur, eptir þessari lastanna ómynd, þad er sinni edur jafnvel djøfulsins mynd, 1 Mós. 5, 3. lá svo ei annad fyrir edur vid bord, enn hann og allir hans nidjar mundu sem ávartarlaus tré verda upphøggnir og í eld kastadir. Nú hefir gædskan Drottins bætt svo aptur vort rád fyrir medalgaungu síns elskulega Sonar Jesú Krists, ad vér høfum aptur á ný ødlast eitt himneskt frjófgunar edli, af hvørju upp kunni ad spretta hjá oss svo miklir dygdanna ávertir, ef vér annars brúkum þá krapta réttilega,

sem oss eru þartil géfnir, ad Gud vill vera med þá nádarsamlega ánægdur; eda hvad er annars þad, sem Pétur segir: ad vér séum ordnir hluttakarar gudlegrar náttúru, 2 Pét. 1, 4. þad er, gudlegs edlis, ad vér gétum girnst þad sem Gud vill, og hatad þad sem hann hatar; edur mun ecki hin samameining í ordum Jóhannis postula, 1 Jóh. 3, 9. er hann segir: Hvør af Gudi er fæddur, sá drýgir ecki synd, þad er, illgirnis synd, þvi hans sædi blífur í hønum; hvørs sædi? Guds; hvad fyrir sædi? Guds edli og náttúra; í hvørjum blifur þad? í þeim i skirninni endurfæddu manni. Þessi yndislegu umskipti urdu á rádi voru skømmu eptir vora náttúrlega fædingu, þvi þar vér vorum gétnir og fæddir í syndinni, Ps. 51, 7. af náttúrunni reidinnar børn, Eph. 2, 3. gjørdi Gud oss í skirnarlauginni ad sínum børnum og erfíngjum eylífs lífs, Tit. 3, 5. íklæddi oss sínum elskulega Syni Jesú Kristó, Gal. 3, 27. og gjørdi oss ad frjóffsømum greinum á hønum, sem er þad sanna víntré, Jóh. 15, 5; en Gud hreinsar hvørja þá grein á hønum sem ber ávørt, svo hún ber enn þá meiri ávørt; svoad nýkomnir frá skirnarsánum vorum vér hvad blómlegastir, og bárum svo mikla áverti, ad siálfur Jesús segir: Nema þér gjørist svosem smábørn, munud þér ecki inngánga í himnariki. O, hvad farsællegt var þá vort rád! þá var Jesú blessadur miskunar fadmur vor Eden, og hann siálfur sem eitt lifsins tré. Lifsins tréd var til þess skapad, ad manneskjan skyldi neyta af þess áverti, svo hann bædi skyldi

lifa og ecki géta dáið; einnig til þess hann skyldi njóta sifeldrar heilbrygði og eugra meina kénna; til hvörrutveggja þénaði oss, þá vér vorum úngbörn, það blessaða lifsins tréð, Jesús; hann var þá Drottinn vor Græðari, 2 Mós. 15, 26. og fyrir hans benjar urðum vér heilbrygðir, Es. 53, 5. af uppruna-syndarinnar sárum; þó vér hefðum þá burtsofnað, þá hefðum vér ecki séð dauðann að eylifu, Jóh. 8, 51; þá glansaði á oss hvítur lilju-farfi Jesú Krists saklevsis, þá skein á oss sá rauði rós-farfi hans réttlætis, þá glóaði á oss sá fagri gull-farfi trúarinnar, þá kvaldi oss ecki öfundin, þá dró oss ecki niður ágirndin, þá brendi oss ecki hatrið né reiðin, þá uppblés oss ecki drambsemin né ærugirndin, þá saurgaði oss ecki lostasemin, og þá fordæmdi oss ecki örvæntíngin, þá vorum vér sannir Guðs Nazarei, fráskildir solli og svacki heimsins, þá var sálin vor brúðir Krists, Jóh. 3, 29. dóttir þess himneska konúngs, Ps. 45, 11; þá vorum vér réttkallaðir synir lifanda Guðs, Hós. 2, 23. útvaldir Guðs, sauðir hans hjarðar, Ps. 100, 3. fyrirheitisins börn og frelsíngjar, Gal. 4, 7. 28. vínber á víntrénu Christo, Jóh. 15, 5; þá vorum vér góð tré, sem ávöxt bárum á réttum tíma, Ps. 1, 3; þá var hjartað vort musteri og bústaður Krists, Eph. 3, 17. já vér vorum réttur helgidómur Guðs, Ps. 96. Þetta var hádegi æfi vorrar, þetta var það yndislegasta sumar vorrar æfi. En Guð náði! hvað hryggilegt er til þess að hugsa og hvað grátlegt um það að tala, hvörsu að vér erum síðar uppvisnaðir, svoað

í hvört sinn sem vér virdum fyrir oss eitt úngbarn mætti oss med harmi í hug koma: æ! hvad mikid gott hef eg mist sídan eg var einsóg þú ert nú? æ! hvad mikid íllt hefi eg sídan adhafst og ístadinn hlotid? Því þá oss vér fiskur um hrygg, og Gud fór ad upplýsa oss med ljósi sins ords og Anda, svo vér fengum þeckt hvörsu gott þad var ad vera af Gudi fæddur, Jóh. 3, 5. og ad vera einn dýrdlegur söfnudur, hafandi hvörki fleckan né hruckn né annad þvilikt, Eph. 5, 27: þá tókum vér strax ad hneigjast til þess, sem var þvertímóti, og svo vard spillingin megn í voru holdi, og æ því fremur, sem vér fengum þeckt Guds gódann vilja, æ því fremur hrylltí oss vid ad fylgja hönum, og því fremur sem vér fengum þeckt vidurstygd djöfulsins og syndarinnar, féllum vér því heldur á þeirra sveif, þartil vér urdum margur hvör af oss aldeilis uppvísnadir ad rótum, og bárum engann duganlégann ávört dygdanna, heldur eitrada ávörtu rángnlætisins, hvörra vegna vér vorum maklegir ad kastast í eylífann eld. Þannig höfum vér framdregid vort líferni allir saman syndarar, hafandi skort á þeirri hrósun, sem fyrir Gudi gildir, Róm. 3, 23. höfum ei viljad halda sáttmála þann, sem vér bundum vid Gud í skírninni, né gánga í hans lögmáli, Ps. 78, 10. heldur urdum aptur undir syndina seldir, svo eckért gott bjó í voru holdi, Róm. 7, 18. holdlega sinnadir menn, þeir eckért skinja, sem vera ber, af því sem Guds Anda er, 1 Kor. 2, 14; já, vér urdum synir þessa heims, Lúc. 16, 8. hóruslekti, Jer. 7, 30.

úin tré, Math. 7, 18. óvinir Guds, Róm. 5, 19; vér tökum fyrir oss þverúdar-fullann anda, Róm. 11, 30. þjónandi girndum og margvíslegu býlifi, gángandi í illsku og øfundskap, hatandi hvør annann innbyrdis, lédum vora limu óhreinleikanum frá einu ránglæti til annars, þartil vér urdum aldeilis herleiddir þrælar syndarinnar, Róm. 6, 20. Á þenna hátt er allur vor skírnarblómi uppvisnadur, og þá skjaldan ad sú mannræna hefir ad oss komid, ad vilja gjøra hid góda, þá hefir þad ordid oss næsta ørdugt, af því, ad altid hefir lodad vid oss hid vonda, og vor hin stársstu verk hafa ecki verid nema hálfverk, því þau hafa verid gjörd annadhvørt vegna eiginn ávinníngs, edur af hræsni, svo þau voru ecki nema hismi, blødin tóm, en enginn ávøxtur nockru nýtur.

Nú vil eg spyrja: hvad veldur því þá, ad vér þó ecki ennþá med Guds reidi-exi, hvør eptir annann upprættir, og í eylífa helvitis glód ernm kastadir? Því er þetta fljúgandi blad enn þá ei vidsvegar burtfokid? því er ecki þessi visni hálmur uppbrendur? hvarfyrir eru ecki þessir villukvistir upprættir? hvarfyrir er svo seint þeim ónýtu þjónum kastad í hin ytstu myrkur? Math. 25, 30. hví er ecki sá ónýti þjón settur af rádsmennskunni? Lúc. 16, 2. og hvørs vegna er ennþá ecki búid ad skélla í lok brúdkaupsstofu himinsins fyrir þessum fávísu meyum? Math. 25, 10. Hértil liggur svar: því veldur þín forþénusta, þín fridþæging og þín fyrirbón, allra-ástúdlegasti Herra Jesú! þegar þinn Fadir

hefir reidt til høggs, þá hefir þú, já, þú hefir altíd komid í veginn, og svosem gripid um ararskaptid med þinni áruan og fyrirbón; þú hefir borid þig sjálfann fyrir høggid, og bedid þinn Fødur ad láta oss njóta þess, sem þú leidst fyrir oss; þegar hann hefir spennt sinn boga og midad til vor, þá hefir þú borid af oss Guds reidi pilur med skildi þinnar forþénustu; þú hefir árlega, já, daglega bedid, ad þessi hin ávartarlausu, já, ávartarvondu tré mættu standa eitt ár enn, Lúc. 13, 8; þú hefir ecki viljad láta formæling gánga yfir þessi ávartarlausu fíkjutré, Math. 21, 19. heldur hefir þú sífeldlega og iduglega grafid i kríngum og hreinsad rætur vorra hjartna med plógi þíns ords og mótlætinganna; þú hefir borid þarad mykju, þad er, þú hefir minnt oss á vorar undanfarnar syndir med prédikun þíns ords og Andans áminníngum í vorum hjørtum, svo vor synd skyldi jafnan vera fyrir oss til minnis, Ps. 51, 5. til idrunar uppørfunar, ad vér á ný kynnum bera verdugann ávøxt umvendunarinnar, Math. 3, 8; þú, eptir þínu milda talsmanns embætti, 1 Jóh. 2, 1. hefir altíd mildad og forþýdt fyrir oss sakirnar hjá þínum himneska Fødur; og þetta er orsøkin einasta, hvarfyrir vér enuþá støndum óbrendir, óútkastadir, óafsettir, óburtfoknir og óupprættir; þitt nafn sé blessad, og þú sjálfur ad eylífu sért þarfyrir blessadur! Hyggjum nú vel ad þessu, þér Guds fólk! í dag, ámedan vér heyrum og formerkjum rødd hans fyrirbónar, medan vér finnum krapt hans forþénustu, þá forherdum ecki

vor hjörtu, Ps. 95, 7—8; oss er því hættara sem vér höfum lengur stadid sem visnadir fauskar; nóg er af ordid fyrir oss! vær höfum alltoflengi borid súr vinber, já eitrud ber illskunnar; æ því er midur og verr! Gud nádi oss! Margir af oss offrudu djöflinum því heita æskunnar blódi, þeim frísku úngdómsins kroptum, þeim yndislegasta parti æfinnar, en ætlum nú ad kasta þeim visnu beinum ellinnar uppá Guds altari til fórnar, og gefa þan fyrir sálu vorri, rænandi svo frá Gudi því sem hann átti med réttu, hvarfyrir eg hrædist ad skrifa þad dóms atkvædi, er Drottinn leggur á þá sem svo fara med hans offur, og skrifad stendur hjá Malachias spámanni. Allir frumburdir áttu ad vera Drottni helgadir i G. Testamentinu; svo átti og ad vera frumburdur æfi vorrar, medan vér höfdum óvisnada krapta, þeir áttu þá ad fórnfærast Gudi til þess offurs sem lifandi er og heilagt og Gudi þacknæmt, Róm. 12, 1. Syndin er því sterkari sem hún er eldri, mannesskjan því veikari sem hún er eldri; þad skal árla beygjast sem í ellinni á ad vera bogid, annars stöckur þad; en lofadur sé Gud, þad er ecki ennþá búid ad útiloka oss frá þeirri himnesku Jerúsalem, Gud hefir ennþá góð ráð og gædskufullann vilja til ad gjöra oss ávaxtarsama, og af fölnudum stráum blómleg aldini: Snúid ydur til mín, segir hann, þá vil eg snúa mér til ydar; svörum hönum aptur: Snú þú oss, Drottinn! þá verdur oss snúid, Jer. 31, 28. Gætum ad! Gud hefir líka annad medal enn skitnina ad fæda oss med á ný, hafnvel þó vér

séum búnir ad tapa því gudlega edli sem vér ødludustum í henni) þad er ord Guds lifanda, það óforrotnanlega sædi, sem blífur um eylífd, 1 Pét. 1, 23; í hvørt sinn sem þad vinnur svo á hjørtum vorum, ad vér idrumst syndanna og látum af þeim, en íklædumst aptur þeim nýa manni sem eptir Gudi er skapadur, Eph. 4, 24. þá endurfædumst vér og ødlumst gudlegt edli á ný. Látum nú Gud sjá oss blómlega uppfrá þessu, svo vel á eptirkomanda vetri sem altíd þareptir. Á sumrinu lifna grøsin vid aptur, þau er visnudu og dóu á veturnar; einhvørnstadar er nú sumar, þó hjá oss sé vetur, þóad veturinn sé hid ytra hjá oss, þá látum sumar gudhrædslunnar og likernisins vera hid innra, sem orsaki þann varma í hjartanu, ad hid ytra sjáist útspringa aldini og ávertir kristilegra dygda; heyrum gjarnan Guds ord, látum þad gánga oss til hjarta, høfum vilja og vidleitni ad gjøra þad, sem Guds ord skipar, Jóh. 7, 17. færum af því ávørt, Lúc. 8, 15. høfum eina lifandi trú, Jóh. 6, 29. já, framkvæmum allar dygdir af trúnni, 1 Pét. 1, 13. elskum Gud, 1 Jóh. 4, 19. óttumst hann med sonarlegum ótta; offrum Gudi vorum líkama, Róm. 12, 1. bidjum hann opt og iduglega í anda og sannleika, Jóh. 4, 24. lofum og þøckum hønum, Eph. 5, 20. Verum ánægdir med hvad sem hann lætur yfir oss koma, 1 Tím. 6, 8. gjørum gott hvørjum manni, einna mest þeim sem eru af trúarinnar heimkynni, Róm. 12, 13. Í einu ordi ad segja: keppumst vid ad inngánga altíd hid þraungva portid, Lúc. 13, 24. O, Jesú! þú bless-

ada Sarons blómstur, sem aldrei uppvisnar ad eylífu! géf os nád til ad sækja eptir helganinni, Ebr. 12, 14. svo vér berum blómstur allra kristilegra dygda, og þá vér loksins uppvisnum í daudanum, þá gjør sálir vorar alblómgadar med himneskum ljóma og vegsemd í eylífdinni, þartil vér um sídir verdum eptir upprisuna bædi á sál og líkama svo blómlegir, ad vér samlíkjast mættum þínum forklárudum líkama. Bænheyr þad fyrir þíns blessada nafns sakir, Amen!

## 7da Hugleiding
### af Snjónum.

**Eins sem regnid og snjórinn nidurfalla frá himninum og koma ecki þángad aptur, heldur vøkva jørdina yfirfljótanlega og gjøra hana ávaxtarsama; svo skal mitt ord vera, sem skal útgánga af mínum munni, þad skal ecki koma tómt til mín aptur, Es. 55, 10. 11.**

Þad er eptirtektaverdt ad Drottinn líkir í þessari málsgrein Esaiæ sínu blessada ordi vid snjóinn, og vegna þess ad vér høfum tíma snjóanna, sem er vetrartíminn, þá inngaungum hann med yfirvegun þess blessada ljóssins Guds dýrmætu orda, svo þau séu bædi á þessum vetri og altíd endrarnær ljós á vorum vegum og lampi fóta vorra, Ps. 119, 105. Drottinn segir í þessari málsgrein Esaiæ: þad skal

ecki koma tómt til mín aptur, þad er: þad skal bædi lesast og heyrast, svoad þess lestur og heyrn færi þann tilhlýdilega ávørt; því skulum vér nú í vorri sídustu hugleidíngu athuga, hvørnig Guds ord á 1) ad vera lesid, og 2) hvørnin svo á ad hlýda því, ad þad komi ecki tómt edur ávartarlaust til Guds aptur.

1) Fyrst þegar þú les Guds ord, serdeilis heil. ritníngu, um hvørja Jesús hefir utgéfid þetta bodord: Ransakid ritníngarnar, Jóh. 5, 39. þá lát þér til hugar koma, ad þá bók hefir sjálfur Gud giørt og stílad, þviad spámønnunum, gudspjallamønnunum og postulunum er hún af Gudi innblásin, 2 Tim. 3, 16; þeirra voru handskrifarar Guds, af þeir toga er þad spunnid sem vér prédikum, svoframt sem þad samhljódar heil. ritníngu. Hvørt má þad þá ecki uppørfa oss til ad lesa og yfirvega heil. ritníngu med hinni mestu audmýkt og andagt, þá vér athugum ad sjálfur Gud hefir hana samantekid og stílad; lofadur veri hann og blessadur! Hana er nú allvida ad fá í vorum húsum, en med hvada eptirtekt og áverti hún muni af sumum lesin vera, veit hann sjálfur bezt; en hitt er víst, ad hvør sá sem hana á, og forsómar ad idka edur láta idka hana í sínu húsi; má búast vid ad standa baraf reikníng sídar. 2) Hvad helzt Guds ord, sem þú les, (gyldi þig ecki einu þó þad komi tómt til Guds aptur, og fordæmi þig á sídasta degi, Jóh. 12, 48.) þá gæt vel ad, ad þad er einn himneskur féssjódur, sem audgar sálu þína andlegum og óforgengilegum gædum; grenslast

þú því, einsog Salómon segir, eptir þessum fjársjóð; þú finnur í því óteljandi greinir, hvörjum þú átt að safna í þitt hjarta svosem himneskum edalsteinum; þetta er sá eini fésjóður, sem þig gjörir í Gudi ríkann, hann forsorgar þína sálu med Guds nádar fyrirheitum. Önnur audlegd er ecki betri enn svo, að einn heidíngi gétur líka verid ríkur af henni; en þessum aud safna ei nema Guds börn, sem standa til ad ødlast eylífa arfleifd á himnum. Þeim heimildar edur eignar-skjølum, sem menn hafa fyrir jørdum sínum og ódals gótzi, glata menn ei, og lesa þau med mestu gaumgæfni; Guds ord er þitt heimildarbréf fyrir himnaríki, gleym því ecki né glata, les þad med mesta athuga: þú veizt ecki nema sú grein, sú klausa, sem þú les med athugaleysi og án eptirtektar, sé sú, sem þér reid mest á eptir ad taka. Þú vilt ad Gud sé þinn Gud, rannsakadu þá ritníngurna og hans ord, þar færdu ad þeckja ad hann blífur í oss fyrir H. Anda, sem oss er géfinn, segir Jóhannes, 1 Jóh. 3, 24. Viltu vita hvort þú ert sjálfur erfíngi fyrirheitisins, þad finnur þú í Guds ordi, því hann hefir útvalid oss til sáluhjálpar í helguninni, 2 Tim. 2, 21: Þeir sem eru kér nádarinnar skulu og verda kér dýrdarinnar. 3) Alittu Guds ord, þá þú les þad, svosem eitt týa-hús edur vopna hirdslu, hvadan þú skalt taka verjur þær, er þú átt ad brúka mót Satan og syndinni, því Guds ord er eitt sárbeitt sverd, sem afsnídur vondar hjartans girndir og greinir lastanna. Til dæmis: þegar hofmódurinn blæs þig upp, þá segir Guds ord: Gud

mótstendur dramblátum; og Salómon segir: Dramblátt hjarta er ein aflygd fyrir Gudi og mætir víst hegningu, Ordskv. 16, 5. Þegar hatur og reidi hreifir sér, upprætir Guds ord hana: Neidist en syndgid ecki, segir Páll. Þegar lostagirndin upptendrast, Gudsord slöckur hennar bál: Enginn óhreinn hefir arfstoku í ríki Krists og Guds, segir þad, Eph. 5, 5. Já, í þessu týa-húsi eru verjur móti sjálfum Satan; þegar hann freistadi Krists, feck hann af hönum þrjú stór sár med þessu sverdi: skrifad er: sagdi hann alltid; safnadu því þessum vopnum í hjarta þitt, þá þú les ordid, svo þú þarmed kunnir út ad slöckva öll eldleg skeyti hins prettvísa óvinar, Eph. 6, 16. 4) Skaltu láta Gudsord vera þér svosem einn spegil þá þú les þad; settu þenna spegil fyrir þig, þá þú ert ad íklæda þig Guds herskrúda: Drottins bodord er klárt sem upplýsir augun, segir Davíd, Ps. 19, 9. Heng þú þenna spegil upp í hús hjarta þíns og horf iduglega í hann, þá sér þú strax hvad þig lýtir, og gétur med Guds hjálp komid því aptur í gott lag. Í ödrum speglum sjá menn sitt andlit, í þessum sjá menn sitt hjarta, já, Guds miskunar hjarta sést í hönum, þad er hid mesta sálarinnar eptirlæti í þad sem optast ad horfa: Drottinn upplýs mín augu, ad eg megi sjá þína undarlegu hluti af þinu lögmáli, segir Davíd. Hér sér þú sjálfann Jesum Christum, brúdguma sálar þinnar, þar máttu horfa á hans uppmáludu mynd, og una þér vid hana þángadtil hann kémur; hér sér þú hans persónu, náttúru og embætti, en eylíft líf er,

undir því komid ad þú þeckir hann, Jóh. 17, 3. 5) Þegar þú les Guds ord, álittu þad svosem eitt lækna-hús; þar er ad finna og fá lækníngar vid øllum sálarinnar, hjartans og samvizkunnar meinum, já, vid sjálfum daudanum: Þitt ord gjørir mig lifandi, segir David, þad stillir þann andlega hjartverk med Guds nádar fyrirheitum. 6) Lestu Guds ord svosem þá bók, eptir hvørri þú átt sídar ad dæmast: Þad ordid sem eg hefi talad mun fordæma hann á sídasta degi, segir Jesús, Joh. 12, 48; hvørn þá? þann sem athugalauslega las þad og heyrdi, og lagadist ecki eptir því. Ef þú lifir eptir þessarar bókar innihaldi muntu verda fridæmdur, en lifir þú þar þvertámóti, muntu eptir henni fordæmast. Þar eru tvær bækur, sem þú skalt lesa med mestum athuga, bók samvizkunnar og bók. heil. ritníngar; ønnur á ad vera þér ad vitni, ønnur ad dómara, lát þá fyrri lagast eptir þeirri seinni. Ef þú gætir alls þessa, þá þú les Guds ord, þá er eg viss þad kémur ei tómt til hans aptur, heldur færir þvílíkur lestur þann ávøxt hjá þér, er sýnir sig bædi í ordum og verkum Gudi og gódu fólki þéknanlegann. 7) En svo mikid sem á því rídur ad lesa Guds ord med andagt og athuga, svo rídur og ecki minna á ad hlýda því med hinni mestu eptirtekt og gaumgæfni, svoad ecki eigi heima hjá oss þad Drottinn klagar yfir hjá Ezechiel: Þeir munu koma til þín og sitja fyrir þér sem mitt fólk, og heyra þín ord og eckért gjøra eptir þeim, Ezech. 33, 31. Gætum því fyrst þess, þá vér hlýdum á Guds orda framburd, ad þad er sjálfur Gud sem

þá vid oſs talar. Nær konúngurinn talar, þá hlýda menn med gaumgæfni; en Gud talar fyrir prédikarann, ſvoframt þad er Guds ord ſem hann talar, og ecki hans eigid heilarugl, eda úr annara ſkrifum til láns tekinn þvættingur; því ſkyldu menn þá ecki med athuga hlýda á tal hans, ſem er Konúngur himins og jardar? Þegar Samúel vard þeſs var, ad þad var Gud ſem taladi til hans, ſagdi hann: Taladu, Drottinn! þinn þénari heyrir; ſá ſem foraktar ad hlýda, þá Gud talar í ſinu ordi, ſkal verda ad hlýda þá hann talar i ſinni reidi, Pſ. 2, 5. Athugum þarnæſt vigtugleika þeſs efnis ſem verid er um ad tala; oſs ber ad vera ódrucknum og árvökrum, ad vér því betur gétum hlýdt: Eg tek himin og jörd til vitnis yfir ydur í dag, ſagdi Móſis, ad eg hefi ſett fyrir ydur lífid og daudann, 5 Móſ. 30, 19. Vér prédikum Kriſt og þad eylífa lif fyrir vorum tilheyrendum, mun þad ecki þeſs verdt ad eptir því ſé tekid? Þad er ecki eitt forgéfins ord til ydar, heldur ord ydar lífs, ſagdi Móſes, 5 Móſ. 32, 47. Þú átt héradauk ad muna þad þú heyrir, en hvörnin gétur þú munad þad, nema þú takir eptir því? Margur klagar hann géti ecki munad; orſökin er, Gud ſtraffar ſumra eptirtecktaleyſi med gleymſkunni og lídur ad Satan ſteli burt ordinu: Himinſins fuglar eta og einnig ſædid, Math. 13, 4. 19; máſké þetta ſé í ſeinaſta ſinni þú heyrir Guds ord leſid edur prédikad; kannſké þú verdir ad gánga ſtrax frá þeirri prédikun edur leſtri þú heyrir og ſtrax inn fyrir dóminn. Þeſsir og adrir þvílikir þánkar

eiga ad upvørfa oss til andagtar undir Guds orda heyrn; þú hlýtur ad standa reikníng af hvørju því ordi sem þú heyrdir en hirdir ei um eptir ad taka; ef þú gætir þessa vel, þá mun ei Guds ord koma tómt til hans aptur, heldur færir þann ávøxt hjá þér, sem Gud hefir tilætlad, því þad er lifandi og kröptugt, Ebr. 4, 12. þad er bædi sverd til ad burtsnída syndina og spori til ad uppørfa nádina. Eldurinn þýdir þann hlut sem frosinn er: Gudsord mýkir stockfredin hjørtu. Er mitt ord ecki sem eldur, segir Drottinn; Brann ecki ockar hjarta í ockur, søgdu þeir tveir Emaus reisendur, Lúc. 24, 32. Já þegar Guds ord er þannig med andagt og athuga lesid og yfirvegad, þá gjørir þad allann manninn andlegann. Snjórinn, þá hann yfirklædir jørdina, gjørir þad, ad hún verdur sér sjálfri ólík og óþeckjanleg, svo umbreytir Guds ord øllum manninum, þá þad flytur hann úr ríki Satans í ríki Krists, Kól. 1, 13. þad gjørir oss andlega sjáandi, sem ádur vorum andlega blindir, því þad upplýsir augu vors skilníngs: Drottins vitnisburdur gjørir hjørtun hyggin, Ps. 19, 8. Vér sjáum í undirdjúpinu kvalir fordæmdra, á himnum sælu útvaldra, og rádin til ad fordast hitt en ødlast þetta; þad gjørir oss andlega heyrandi, svo vér gledjum oss af því til vor verdur sagt: Vér skulum inngánga í hús Drottins, Ps. 27, 4; þad gjørir oss andlega veltalandi: svolengi menn fram-ana í syndinni eru þeir svosem mállausir, svoad jafnvel bæn hins ógudlega verdur ad synd, því segir Davíd: Hefda eg nockud órétt í mínu hjarta, þá

heyrdi Drottinn ecki mína bæn, Ps. 66, 18. Gud bænheyrir ecki synduga, sagdi sá sem blindur var borinn. En þegar Guds ord heyrist med athugasömu hjarta, þá kémur trúin fyrir þess heyrn, Róm. 10, 18. med henni umfødmum vér Krist, fyrir hvørn vér høfum djørfúng og adgáng í fullu trausti fyrir hans trú, Eph. 3, 12. sem er forlíkun fyrir vorar, og ecki einasta fyrir vorar, heldur allar veraldarinnar syndir, 1 Jóh. 2, 2. svoad túngan vor hefir djørfúng ad upplypta sinni bæn í skýin til Guds: Bæn hins réttferduga má mikid, þá hún er alvarleg, Jac. 5, 16. Vér erum seinfættir, já, draghaltir ad gánga á vegum Drottins, og þó vér séum endurfæddir, brjótum vér allir margfaldlega: Sá hinn réttláti fellur sjøsinnum, Ordskv. 24, 16; en Gudsord lagar svo vort edli, þá vér tøkum réttilega eptir því, og vidréttir krapta þess andlega lifsins, ad vér bædi viljum gjøra og getum gjørt þad Gud vill og heyrir til vorrar sáluhjálpar, þad greidir fætur vorar fram á veg fridarins; Páll áminnir, Ebr. 12, 13: Gjørid réttann gáng med ydar fótum, svo þad sem halt er fari ei framar villt. Allt megnum vér fyrir Krists krapt sem býr í ordinu, en eckért án hans: An mín fái þér eckért orkad, segir hann, Jóh. 15, 5. Gud er hann sem í oss verkar bædi viljann og máttinn, Phil. 2, 13; en fyrir hvørt medal? fyrir sitt blessad lifsins ord. Snjórinn fellur úr loptinu yfir jørdina: sú edla gáfa Guds, hans blessad ord, er ofan komid fra Fødur ljósanna, því sá eingétni Sonurinn, sem er í Fødursins skauti, hefir

oss þad opinberad, Jóh. 1, 18. Snjórinn hefir mjallhvítann lit: Ordid Guds er ljós á vorum vegum og lampi fóta vorra, Ps. 119, 105. Snjórinn smeltur af sólarhitanum, vøkvar jørdina: Guds ord af eldi H. Anda kraptar smelt í vorum hjørtum vøkvar vorar sálir, því hvør hann dreckur af því vatni sem eg mun géfa hønum, þad er, hvør hann hlýdir minni kénníngu, þá mun hann ecki þyrsta ad eylífu, segir Jesús, Jóh. 4, 14. Snjórinn hlífir jørdinni vid frostinu: Guds ord hlífir oss vid øllu því, sem orsakar uppvísnun gudhrædslunnar, því þad er þad óforrotnanlega sædi, 1 Pet. 1, 23. Snjórinn nemur helzt stadar í láglendinu, en fikur af þeim háu fjøllunum: Guds ord færir helzt ávøxt í lítilátum hjørtum; en úr þeim af drambseminni uppbláfnu hjørtum fikur þad, því Satan, sá illi andi drambséminnar, stelur því þadan, Math. 13, 19. Þegar sumarid kémur, sólin skín og vermir, þá sést helzt hvørt gagn ad snjórinn hefir gjørt jørdunni: þegar þad eylífa gledinnar sumar kémur, og Sól réttlætisins upplýsir og vermir vorar sálir og líkami; þá reynum vér fullkomlega, hvørsu gott þad leidir eptir sig, ad taka eptir Guds ordi og færa af því ávøxt í þolinmædi.

O, þú allra ilmsætasta ord þíns himneska Fødurs, Herra Jesú Christe! géf þú ad þessi hér ad framan tølud, samt øll ønnur þín ord, verdi øllum þeim, sem þau lesa edur heyra, ilmur lífsins til lífsins! Þér med Fødurnum og H. Anda sé lof og dýrd ad eylífu, Amen!

